O.S. Ga. № 840

Andlegir

# Sálmar og Kvædi

þess

guðhræðda kennimanns og þjóðskálds

## Hallgríms Péturssonar.

Tíunda útgáfa.

Kosta óinnbundnir 48 sk.

Reykjavík 1852.
Prentaðir í prentsmiðju Íslands, hjá
Einari Þórðarsyni.



# Inntak

## ættar- og æfi-sogu

sáluga prestsins

# Hallgríms Péturssonar,

ritad af sáluga stiptprófasti

Mag. Hálfdáni Einarssyni.

---

Sveinbjørn prestur Þórdarson og Þórdísar Finnbogadóttur, var medal fyrirtaks = presta í Hólastipti í sinni tíd. Þegar hann var djákn, fékk Jón biskup Vilhjálmsson honum sitt fullkomid umbod í Þingeyarsýslu, sem bréf, þar um gjørt, fimmtudaginn í páskaviku 1431 sýnir. Árid 1463 var hann ordinn Officialis, og sama embætti hafdi hann 1483, en deydi 1490, eptir þad hann hafdi haldid Múlastad í 22 ár. Séra Sveinbjørn átti mørg børn (Annálar segja 50), medal hverra telst Sigurdur (fadir Helgu, er barnamódir var Jóns

biskups Arasonar) og Hallgrímur, sem fadir var: 1) Séra Þorláks á Stadarbakka, fødur Gudbrands biskups. 2) Séra Einars á Utskálum, hvers synir voru: a) Gudmundur skólameistari á Hólum, sídan prestur á Stadarstad og prófastur í Snæfellsnessýslu og b) séra Bergsveinn á Utskálum. 3) Séra Gamalíels, fødur séra Bjarna, fyrst skólameistara á Hólum, og sídan prests ad Grenjadarstad; séra Gissurar og Þorkells Hólarádsmanns. 4) Þorkells, er fadir var a) séra Odds á Hofi í Vopnafirdi, fødur Bjarna á Bustarfelli, sýslumanns í Múlaþingi og b) Olafs, fødur Olafs skólameistara á Hólum, og sídan prests ad Grímstúngum, hvar hann missti embættid. 5) Séra Gissurar á Stadarbakka, fødur séra Péturs í Vestmannaeyum, hvers synir voru þeir séra Gissur, séra Arngrímur og Gísli, er myrtur var í Eyunum 1692. 6) Gudmundur, er fadir var a) Hallgríms í Grøf á Høfdaströnd, fødur Péturs, fødur séra Hallgríms — og b) Þórbjargar, kvinnu séra Jóns Sveinssonar í Holti í Önundarfirdi, prófasts í Vestur-Isafjardarsýslu og hálfbródur Mag. Brynjólfs biskups í Skálholti. 7) Gudnýar, er var módir séra Þorláks Ivarssonar í Heydølum. Módir séra Hallgríms er nefnd Sólveig, en systkin hans voru a) Páll; hans synir Hallur og Gudmundur, fadir Mad. Gudrúnar á Hraunum í Fljót-

um. b) Gudrídur; af hverri komnir eru prófastarnir séra H. Eldjárnsson á Granjadarstad, séra E. Jónsson á Hrafnagili og margir fleiri.

Pétur Hallgrímsson var sakir ættar tekinn ad Hólum af Gudbrandi biskupi, og var þar hringjari; honum fylgdi sonur hans Hallgrímur, fæddur 1614 eda þar um bil; hefur hann lært þar ad lesa og skrifa. Sá margfródi løgmadur Páll Vídalín skrifar (in Recensu Scriptorum & Poëtarum Seculi XVI & XVII.), hann hafi nokkurn tíma í skóla verid, og lagt þar fyrsta grundvøll bóklegra mennta. Tjáist, ad Hallgrímur hafi misst skólann, en fyrir einhverra náúnga sinna tilhlutun siglt til Glůkkstadar, og komizt sídan til Kaupmannahafnar, hvar hann hafi þjónad hjá járnsmidi nokkrum, en ad Mag. Brynjólfur, sídar biskup, hafi feingid hann þadan lausan, annadhvort 1631, þegar hann í annad sinn sigldi hédan, eptir hans 2 ára hérveru, edur — hvad líklegra virdist — ári sídar [1], ádur hann inngékk Conrecto-

[1]) Reisusálm, er hér vid bætist og svo byrjar: „Jeg byrja reisu mín, Jesú! í nafni þín," finn eg í 3 sálmakverum Msc. med þessari fyrirskript: „Reisusálmur Hallgríms Péturssonar, kvedinn í Kaupmannahøfn árid 1632, þá hann vildi reisa þadan til Islands." Sé nú þetta rétt, hefir hann frá járnsmidnum losazt líklega árid

ratum í Hróarskeldu, og slutt svo mál hans, ad hann var inntekinn í Vorfrúar-skóla í Kaupmannahøfn; tók Hallgrímur þar þvílíkum framførum, ad árid 1636 var hann kominn í svo nefnda meistara Lectsíu. Fyrir gudrækilega umsorgun og ørlæti Kristjáns konúngs IV., komu 38 persónur til Kaupmannahafuar frá Tyrkjum af fólki því, er hernumid var, og hédan af landi slutt 1627; en þar fólk þetta skildi litid eda ekkert í dønsku, þurfti þad med því væri einhver íslenzkur feinginn, sem styrkti þad í þess kristindómi, var þess vegna Hallgrímur feinginn til ad lesa og tala fyrir því guds ord. Medal þessa útleysta fólks var Gudrídur Símonsdóttir (er søgd gipt hafi verid Eyólfi nokkrum, og haldid ádur til í Stakkagerdi í Vestmannaeyum), til hverrar hann fékk þann ástarþokka, ad vorid 1637, þegar þetta ánauduga fólk skyldi reisa frá Danmørku, yfirgaf Hallgrímur skólann og fór med Gudrídi út hingad; komu þau út í Keflavík, og var Hall-

---

1632; en þar hann hafdi í fødurlandi sínu lært ad lesa og skrifa, samt í Hólaskóla numid nokkud í latínu, svo hefur Mag. Brynjólfi sýnzt Hallgrími gagnvænlegast, ad hann byrjadi aptur med lærdóm sinn, einkum þar hann hefur fundid hjá honum gódar námsgáfur; því þad sýnist fjærri líkindum, ad med øllu ólærdur handverks-dreingar hefdi heldur til mennta en annars handverks sýttur verid.

grímur þá púlsmadur hjá dönskum um sumarid; en eptir þeirra burtsiglingu hafdi hann hvergi hæli. Gudrídur ól barn í Ytrinjardvík, hjá Grími Bergssyni, en þá taldist svo til, ad madur hennar var daudur, ádur en hún tók vid barninu, svo brotid reiknadist frillulísi. Snérist þá svo fyrir Hallgrími, ad hann vard áhángandi Arna á Ytrahólmi á Akranesi, syni Gísla Þórdarsonar lögmanns, svo hann skaut skjóli yfir hann, þad eptir var sumarsins, og reyndist honum sídan hinn mesti hjálpar madur.

Skömmu eptir þetta mun Hallgrímur hafa gipzt Gudrídi, og sídan í mestu fátækt uppihaldid sér einhversstadar á Sudurnesjum, í koti nökkru, Baulufæti þá kölludu, hefi eg séd skrifad, hvar um þó ekkert víst álykta — annadhvert á vegum Arna edur í Hvalsneshverfi, undir skjóli bóndans þar, Þorleifs Jónssonar, til þess hann eptir undirlagi Mag. Brynjólfs biskups — því bágt var um þær mundir ad fá presta til Hvalsnes-sókna, þar sá rómur hefir álegid, ad Torfi Erlendsson, þá héradsdómari í Gullbringusýslu, og adrir stórbokkar í Hvalsness söknum, hefdu ekki látid presta sína ofdátt — kann ske og fyrir áeggjun og tillögur Arna eda Þorleifs, fór til Skálholts og vígdist 1644 til Hvalsness-sókna, var og árid eptir innstefndur í Synodi-réttinn á alþingi, og undirskrifar Protocolinn, eins líka

Hvalsness Visitatiu 1646, bjó hann þá á Hvalsnesi og mun þar búid hafa, svo leingi sem hann var þar prestur, hvad eg meina verid hafa 6 edur 7 ár; því 1650 deydi séra Olafur Bødvarsson prestur i Saurbæ á Hvalfjardarstrønd, er þann stad hafdi haldid frá 1623, en séra Hallgrími var veittur stadurinn 8. Apr. 1651, af Mattías Søffrínssyni, er umbodsmadnr var høfudsmannsins Henriks Bjeleks og tók hann vid stadnum i fardøgum sama ár af ekkju séra Olafs, Gudrídi Rafnsdóttur; stendur og i Saurbæar-kirkju Visitatiu, gjørdri af Mag. Brynjólfi 1661 þann 9. Sept., ad séra Hallgrímur hafi stadinn haldid á 11. ár; en ekkja Oafs mun hafa notid nádarársins, ef ekki eptir konúngsbr. um prestaekkna nádarár af 3. Mai 1650, þá eptir Ordinantiunnar hljódun, og á henni grundudu Synodali Mag. Brynjólfs af 1639. Eptir þad nú séra Hallgrímur var kominn ad Saurbæ, vegnadi honum sæmilega til þess 1662 þ. 15. Ag., þá um nóttina uppbrunnu øll prestakallsins innanbæar-hús og mikid af búshlutum; komst allt fólk af, utan adkomandi førukarl og sagdur forn i skapi, Olafur Pálsson, sonarsonur séra Bøðvars Eyólfssonar i Saurbæ. Margir gódir menn urdu þá til ad hjálpa séra Hallgrími, svo stadurinn vard uppbyggdur sama haust. Fáum árum eptir, nefnilega 1665 eda 1666 vard hann líkþrár, en fór til al-

þingis þetta sídara ár, og urdu margir til ad gjøra honum gott; en árid 1667 þreyngdi svo ad honum holdsveikin, ad hann kaus sér fyrir kapilán séra Torfa Jónsson frá Reykholti og gaf upp vid hann hálfan stadinn, en bjó sjálfur á ødrum helmingi stadarins. Séra Torfi deydi um sumarmál 1668, en eptir hann kom séra Hannes Bjørnsson, sem ádur hafdi prestur verid i Ferjubakka þingum; bjó hann ásamt séra Hallgrími i Saurbæ hid fyrsta árid, en tók vid stad og kirkju 1669. Fór fram afhendingin þ. 5. Mai, en var stadfest af biskupi þ. 8. s. m. Med stadnum afhenti séra Hallgrímur jardirnar: Kattarnes, Stadarhøfda og Ós-partinn, en hélt eptir Ferstiklu, Hrafnabjørgum og Stadartánga. Sama ár flutti séra Hallgrímur sig ad Kalastødum, hvar hann bjó i 2 ár og sídan ad Ferstiklu, hvar hann bjó til daudadags. Nú þó séra Hallgrímur væri ordinn veikur og kominn frá Saurbæ, var hann þó um þessar mundir og leingi fram eptir á fótum og nokkurn veginn ferdafær, þvi bædi annó 1668 reisti hann til alþingis, og var þá i Synodo, og 1669 er hann einninn á alþingi og undirskrifar med ødrum 22 stiptisins prestum, audmjúka bæn þeirra til Mag. Brynjólfs ad halda vid biskups embættid framvegis. Hin sídustu missiri vard hann kararmadur og nærri blindur, en bar þó sinn þúnga veikleika med þolinmædi og orti i honum marga and-

rika og hjártnæma sálma. Ad lyktum, þá hann var sextugur ad aldri, endudust hans stríds dagar fyrir sáluhjálplegan afgáng, sem skedi eptir veturnætur, edur þann 27. Okt. 1674; var hann jardadur fyrir framan midjar kirkjudyr í Saurbæ þ. 31. s. m., en nú er sagt leg hans sé ad mestu leyti innan kirkju, þar hún sídan hefur verid leingd fram[1]

Séra **Hallgrímur** var ad ytra áliti stór og ei lidlega vaxinn, døkkur á hár og brún, eінginn raddmadur, en hversdagslega skemmtinn og gladsinna; án vidhafnar tilbreytni, lidugur og ordheppinn í

---

1) Yfir þetta nafnfræga sálmaskáld er árid 1822 lagdur ad Saurbæ á **Hvalfjardarstrønd**, prýdilega úthøggvinn **líksteinn** af þjódhaga smidnum **Jakobi Snorrasyni** á **Húsafelli**, úr þeirri ágætu **steinategund**, hverri **ferdasaga** þeirra **Eggerts** og **Bjarna** lýsir í § 133, ad finnist í **Húsafellsfjalli**. **Líksteinsins** áhøggna **letur** er **þetta**:

Lèt. stein. þenna. landshöfðíngi.
Sárast. saknaður. — hverr. sannri. trú.
Af. alúð. unni. — Ættmenn. rista.
Eptir. sinn. dag. að. auldnum. moldum.
Háleits. s á l m a s k á l d s.
H A L L G R Í M S. fræga.
Saurbæar. prests. P É T U R S S O N A R.

---

Lifi. beggja. minníng. í. landi. blessuð.
MDCCCXXXI.
M. St.

kvedskap; andríkur og ordhagur prédikari; velskiljandi þýzku, dönsku, látínu og sitt módurmál.

Börn séra Hallgríms og Gudrídar dóu flest öll úng; eitt þeirra hét Steinunn, sem vard hálfs fjórda árs, hverja sagt er hann hafi mikillega tregad vegna náms og gáfna, er strax létu sig í ljósi hjá henni. Annad Eyólfur, er giptist Þóru, dóttur Gudmundar Narfasonar á Hálsi í Kjós og Gudrúnar elztu Ormsdóttur frá Eyum. Þeirra börn: a) Magnús, þjónadi prentverki í Skálholti, sigldi og giptist utanlands, og b) Gudrún, er giptist Þorleifi syni Jóns nokkurs Indridasonar. Gudmundur er og talinn sonur séra Hallgríms; mun hafa dáid úngur og ókvæntur, þar ei er getid hans afkomenda. Gudrídur var, eptir dauda séra Hallgríms, hjá syni sínum Eyólfi, er bjó á Ferstiklu eptir födur sinn, til þess hann dó 1679, á sínu 42. alдurs ári, en eptir dauda hans fór hún ad Saurbæ til séra Hannesar, og deydi þar 1782, ári yngri en hálf nirœd, grafin 20. Des., hvar eptir hún sýnist fædd 1598 og gipt vera séra Hallgrími, þá hann skorti vetur á fertugan.

---

Eptirfylgir med fám ordum ad minnast á þau skrif, sem eptir þenna guds mann, séra Hallgrím, liggja og honum almennilega eignud eru: Í sund-

urlausri rædu hefur hann samanskrifad: Diarium christianum edur daglega idkun af øllum drottins dagsverkum, med samburdi guds tíu bodorda og minníngu nafnsins Jesú. Lét hann bækling þenna frá sér útgánga 1660. Einnig: Sjø gudrækilegar umþeinkíngar, edur eintal kristins manns vid sjálfan sig hvern dag í vikunni, kvøld og morgna, og hefir hann báda þessa bæklinga dedicerad Eggert Bjørnssyni á Skardi á Skardsstrønd, sýslumanni i Bardastrandarsýslu, og eru þeir nokkrum sinnum prentadir. Ut af Diario hefir kvedid sálma sá vel gáfadi kennimann séra Jón Gudmundsson, en Vikuþaunkunum hefir i sálma snúid séra Eiríkur Hallsson i Høfda. Hjá mér eru Vikubænir séra Hallgrími eignadar, er vel mættu fylgja þessum bæklingum, ef menn fyrir víst vissu þær væru verk séra Hallgríms og óafbakadar. Þessi guds madur hefur einnig commenterad yfir nokkrar vísur úr nokkrum Fornsøgum, einkum søgu Olafs konúngs Tryggvasonar, en þó einhverjum þyki þad hans verk ei hid fullkomnasta, þá er adgætandi, auk þess vér erum allir menn og vorum ófullkomlegleika fylgir jafnan einhver annmarki, ad vera má séra Hallgrímur hafi ei gefid sér stundir, eda ei haft þær til ad hálda áfram med sáma vandaverk, og skilj=

ast svo vid það, að grandskygnustu menn gætu eingin midsmidi á séd[1].

Í bundinni rædu hefir séra **Hallgrímur** miklu fleira gjört, og sérhvað af því med þeirri snilld og ágæti útfært, að hann fyrir laungu forþénad hefir eitt hid ypparsta sæti medal þessa lands höfuðskálda; þar hann med fögrum og hagkvæmum ordum i lidugasta kvedskap, án fordildar og affarasnids, framsetur sína velgrundudu þánka um þvílíkt efni, sem optast snertir hjartnæmustu atridi vorrar trúar, kristilegt framferdi manna og framfarir þeirra i andlegum efnum. Eitt hid ypparsta og uppbyggilegasta verk, sem i ljódum hefir samid verid og i þessu landi útgeingid, eru hans fimmtíu sálmar **út af pínu og dauda drottins vors Jesú Krists, med textans útskíríngu.** Og — svo sem þeir höndla um hid huggunarríkasta efni og innibinda i sér merg og kjarna vors kristindóms, svo hefir hann mest ástundad ad vanda þá, og víst nokkurra ára tíma til þess brúkad — sumir segja 10 og

---

[1]) **Páll** lögmadur **Vídalín**, vel tilfallinn dómari i greindu efni, skrifar þannig hér um l. c.: Commentarium etiam reliquit in nonnulla veterum Poëmata, quæ Historiæ O l a i T r y g g o n i s f. inserta sunt, in quo laudabilem etiam operam præstitisse videtur, pleraque enim feliciter eruit, haud scio an omnia, glaciem certe fregit maximæ difficultatis, stravitque ad cetera viam, & dolendum, quod tam pauca idgenus poëmata tractaverit.

vænast hér til vitnisburdar séra Hannesar Bjørnssonar, hverjum hér um mátti nokkurn veginn kunnugt vera, adrir færra. — Þetta sitt ágæta verk fullkomnadi hann 1660, sem sýnir formáli og Approbatio séra Jóns Jónssonar á Melum, dagsett 7. Marz sama ár. Þad sýnir og Dedicatio til Kristínar Jónsdóttur í Einarsnesi og Helgu Arnadóttur í Hítardal, dagsett 5. Mai nefnt ár; mér þykir líkleg sú tilgáta, ad hann hafi ei leingi látid undandragast ad sýna sálmana sínum velgjørdamanni Mag. Brynjólfi biskupi, heldur jafnvel fyrstum manna, og undir eins offererad þá dóttur hans, eins og hann í Marz á s. á. gaf þá og tilsendi Ragnhildi Arnadóttur í Kaldadarnesi, hvert Autographum prófasturinn séra Vigfús í Hítardal skrifar sig í høndum haft hafa med formála Jóns prófasts. Sú 1. Editio þessara sálma útkom á Hólum í Hjaltadal 1666, hvorki góð né fullkomin, þar medal annars vontudu 2 vers í þann 15. sálm og hid 3. í þann 8. Sú bezta Editio meinast hin 4. í Skálholti 1690. Þessir sálmar hafa ad vísu (til 1773) 15 sinnum prentadir verid[1] og þad med citatis biblicis 1704, og hefir Editor, Mag. Bjørn biskup Þorleifsson viljad lagfæra þá í tveim stødum (nefnil. þad 18. vers þess 14. sálms og hid 12. vers í

[1]) Þessara sálma 27. útgáfa var prentud sídast í Reykjavík 1851.

þeim 16. sálmi), og þó Mag. Bjørn biskup hafi gjort þessa umbreytingu i beztu meiningu, þá lagdist þad ei svo út fyrir honum, og hefir henni því ei fylgt verid i enum sídari Editionibus. Miklu framar hafa nokkrir merkilegir menn annadhvort reynt til ad snúa þeim i framandi túngumál, eda med prédikunum út af þeim viljad þeirra inntak ljósara gjora fyrir almúga; hver fyrirtekt ad vísu lofleg er, þó sálmarnir sjálfir fram setji skiljanlega, þó i færri ordum, þjódskáldsins þánka. Á látínsk vers hafa gjørt tilraun ad snúa nokkrum þessum sálmum Mag. Jón biskup Vídalín, eitt hid bezta látínuskáld hér á landi verid hefir, bródir hans Þórdur og Jón Þorkelsson, nokkur ár rector i Skálholts skóla[1]. Gudmundur, sonur frá Gudmundar Jóns (lærda) sonar, gáfumadur og skáld sæmilegt — er þénti leingi hjá hennar majesteti Sophíu Amalíu og vard fógeti hennar i Lágalandi (Laaland), allt til hennar dauda 1685, en

[1]) Árid 1778 út kom i Kaupmannahøfn látínsk útlegging þessara Passíusálma, undir sømu løgum, sem hinna frumkvednu, gjørd af Kolbeini presti Þorsteinssyni til Middals í Árnessýslu, ad øllu leyti á kostnad, eins og sú útgáfa øll, þáveranda amtmanns, sídan stiptamtmanns Olafs Stephánssonar, sem vard gefins útbýtt hér og erlendis vída. M. St.

Hjørleifur prófastur Þórdarson, sídast prest-

bjó þar eptir i Péttmerski stutta stund, síðan i Glückstad, og lifði víst til ársins 1688 — byrjaði að útleggja þessa passíusálma á þýzku, en hvort hann hefir tilendzt að fullkomna það áform sitt, er mér að vísu óljóst. Ut af Passíusálmum þessum hafa samantekið 49 húslestra þeir æruverðugu gáfumenn: Séra Guðmundur Isleifsson, prófastur i Barðastrandarsýslu og seinast prestur á Ingjaldshóli; sra Jón Sigmundsson, hvers áður er getið; sra Vigfús Jónsson á Stöð, er deyði 1761; sra Jón Jónsson, síðast prestur til Staðarhóls og Hvolssafnaða, hvers verk þrykt er á Hólum i Hjaltadal 1766 [1]. Það er og merkilegt, að þessir Passíusálmar eru ei einasta — eg hefði nær því sagt — i hverju húsi hér á landi iðkaðir, heldur og hefir þeirra verðugu hrósi á lopt haldið meðal framandi þjóða sá nafnfrægi Historiographus Regius Þormóður Torfason in Serie R. & D. D. L. I. Cap. II., er þó sonur var Torfa sýslumanns Erlendssonar, mótstöðumanns

ur til Valþjófsstaðar i Norðurmúlasýslu, hefir snúið sálmum þessum á látínsk hexametrisk vers, prentuð i Kaupmannahöfn.

[1]) Vigfús prófastur Erlendsson, síðast prestur að Setbergi i Eyrarsveit, hefir samantekið 50 húslestra út af þessum Passíusálmum, nefnda Píslarþánkar, prentaða á Hólum 1773 og 1779.

fra Hallgríms, og kapteinn Magnús Arason hafdi þá gjarnan á sér, og fundust þeir á honum daudum, þegar hann drukknadi vid Hrappsey á Breidafirdi 19. Jan. 1728, og — hvad meira er — ad Magnús virti svo minningu fra Hallgríms, ad hann ásetti sér ad innkaupa Líkstein yfir hann, med látinskri Inscription[1] og setja fyrir nedan hana þau 5 sídustu vers þess 25. sálms, snúrud af honum á látinsk ljódmæli. Hér ad auki hefir Sra. Hallgrímur ort 1656 sálma út af fyrri Samúelis-bók og af þeirri sídari til Abners dauda, eda til þess 3. vers i þeim 2. sálmi, hvert verk þeir mjøg velgáfudu menn: Sigurdur Gíslason og séra Jón Eyólfsson eldri á Gilsbakka færdu vel til enda. Þeir eru prent-

---

[1]) Þessi Inscription hljódar þannig, eptir því sem mér hana meddeildi í Kaupmannah. 1754 Stud. Antiqv. J. Olafsson.

D. T. O. M. S.

Monumentum. Viri. in. perennem. patriæ. suæ. I s l a n d i æ. gloriam. nati in. perenne. ecclesiæ. Christi. quæ. vivit. in. I s l a n d i a. aut. victura. est. emolumentum. Sacerdotio. functi. &. eodem. suo. Sacerdotio. sancte. defuncti. Dni. HALLGRIMI PETRI. F. Ecclesiarum. primo. H v a l s n e s e n s i s. &. hinc. S a u r b æ e n s i s. in. H v a l f j a r d a r s t r ö n d. pastoris. dum. vixit. vigilantissimi. atque. eo. ipso. officio. summo. cum. honore. mortui. posuit

*M. Arason.*

adir (á Hólum) 1747. Líka svo hefir séra Hallgrímur kvedid sálma út af Historíu Jónasar spámanns og kvædi af Bíleam, hvorttveggja prentad med Vísnabókinni 1748. Af Rímnaflokkum eptir séra Hallgrím eru: 1.) af Lyklapétri og Magelóna. 2.) af Flóres og Leó (þar Bjarni Jónsson, skáldi, hætti vid i hinni 16. rímu, þar svo byrjar: „Hleidólfs bát eg hrindi á mar, heldur en leingur standi"). 3) af Krókarefi. Auk þess, sem nú er upp talid, hefir hann marga sálma, kvædi og gamanvísur eptir sig látid, sem ad nokkru leyti finnast i þessu kveri og ad nokkru leyti liggur enn þá hjá mér og ödrum, sem vissra orsaka vegna ekki ad þessu sinni þrykkjast kann.

Hvad þessari útgáfu vidvíkur, þá er hún á vidlíkan hátt lögud, sem hin sidasta af 1770, nema hvad undanfellt hefi þær stuttu bænar andvarpanir, sem þar finnast á blf. 173—179, þar ei einasta er til vonar, ad þær þrykkist hid fyrsta ásamt þaunkum (svo köllu dum) Auctoris, heldur og sýnast, nær Finales consonantiæ frá takast, líkar jafnt sundurlausri, sem bundinni rædu; líka og þar fyrir ad rúm feingist fyrir vidbætirnum, er inniheldur nærri allt hingad til óþrykkt, en séra Hallgrími eignad ei af færri en 3 Exemplaribus, af hverjum ekkert sýnist þess annars Apographum. Ad innsetja allar variantes lecti-

ones hefi eg opt þeinkt, en sleppi því um sinn, þar það er gagnslitið, en gjörir undir eins kverið stærra og dýrara. Sálminn: **Leið þú mig guð, og lát mig ei,** hefi eg fundið í 2. **Exemplaribus** einasta með 3 versum, en af hinum, samt 2 enn óþrykktum versum, samanstendur annar sálmur séra **Hallgrími** eignaður. Í **Aldarháttar** versi 9. er nú undan fellt: **næm,** eptir **Exemplaribus** þeirra sælu guðs manna: föður míns, einu séra **Eyólfs** á **Völlum** og séra **Guðmundar Erlendssonar** í **Felli,** þar þetta orðkorn sýnist úti mega látast í tilliti til meiningar og bragarháttar. Í **Flærðarsennu** (svo kallaðri) v. 2. sýnist heldur eiga í tilliti til meiningarinnar vera: kreppir **inn,** heldur en **að,** eptir sál. **Becks** sýslumanns **Exemplari.** Úr sálminum: **Sælar þær sálir eru,** hefi eg burttekið 3 vers, eptir tilvísun **Exempls.** séra **Hallgrími** tilheyrandi, og sett þau bak við nefndan sálm, því þau eru undir öðru lagi en hann. Sálmurinn: „**Hjartað kátt, höfum þó gángi stirt**" mun vissulega vera séra **Jóns** píslarvotts, eins og hinn: „**Jesú frelsari og friðarherra**" **Sigurðar Pálssonar;** ekki heldur munu **Samstæðurnar:** „**Hirt mig ei í heiptarbræði**", né versin: „**Eitt má óvalt heita**" etc. fyrir víst eignandi séra **Hallgrími;** verður þetta því undan fellt í þessari **Utgáfu,** í hverri finnst eitt og annað smávegis lagfært, eptir

þeim Exemplaribus feingid hefi, sídan penultima Editio útgekk, og gódir menn hafa mér tilvísad, medal hverra helztu er prófasturinn séra Vigfús Jónsson í Hítardal, hverjum eg, eptir skyldu, aflegg hér med mitt opinbert þakklæti, eins og hinum ödrum, þó um sinn ei séu á nafn nefndir.

---

1. Punda guds vel fékk vandad,
Vitur i sálma-ritum,
Medferd Hallgrimur hirdir
Herrans sauda ótraudur,
Son Péturs, sem ábata
Sizt rýrdi Kristi dýrdar,
Olatur, i dúk sveita
Ei fól gjof himna jofurs.
2. Bordlogd heldur hugdi,
Hún minna skyld' ei vinna
Ard um Isa-jordu,
En nád hafdi þáda.
Þvi er sál hins sæla
Sezt i fognud beztan;
En vér eptir finnum
Agætst merkin verka.
3. Eitt sinn, opt þó mætti
Adur lita fjolnýtu
Stef hins ljóda ljúfa,
Logud ment vera prentúd,
Biskup Gisli þann geisla
Gudfrædis ekki mædist

Landi láta tendrast;
Letrad fátt vard betra.
4. Hér er hugvits rýrum
Hægt tilbent ad mentast;
Hér er hug óvørum
Hermt frá andar grandi;
Hér er hugar-sárum
Huggan trú vel búin;
Hér er hugar-skærum
Heitid dýrdar veiting.
5. Ættmanns hródra háttum
Hródur vert er bjódist;
Fár hefir fegur skrifad
Fordum ljód vorrar þjódar;
Nokkrir nærri hrukku,
Nýtur ber af itum,
Mangi máske leingi
Megi jafnast vid Nafna.
6. Breidid mót eyrun bædi,
Blidur Íslands lýdur!
Breidid ad hendur bádar!
Býdur gud sitt ord tídum;
Breidid út hjørtun hradir,
Hlýdid sálma smidum!

Breidid varir vidur,
Vida saunginn prýdid!
5. Lýsi oss þad ljósid,
Ljós máttum bezt kjósa;
Kjósum veg, sem vísar,
Vís er oss þá prísinn,
Prís í himna húsi,
Hús þad rækjum fúsir;
Fúsa loks ad leysast,
Leysi gud frá hneisu!

---

Encausto formas veteres pinxere tabellis.
Nostras hic vates carmine conspicitur.
Ipse suae pictor mentis (nil ora moramur).
Vivus erat scriptis entheus ille senex.

Ita posuit ipsius
ex sorore pronepos & cognominis
H. Eldjarni F.

---

EPITAPHIUM.

1. Hér liggur skáld, er skyldug
ld stæra forprís skæran,
ldmæli' um Krist, þá kvaldist,
ust vann skáld þad næra.
skáldum Isa-foldar

Eru skáldin svo færa,
Sem skáldi því glaðir gjalda,
Grær skálds hrós frábærast.
2. Eitt ljós Snælands ætta,
Ættmanns voru hættir,
Hætt þá særðu sóttir,
Sótt vann trúar þróttur.
Þróttsæll dó í drottni
drottins píslarvottur;
Vott þess firðar fréttu,
Frétt með sannleiks réttri.
3. Lifir skáld lopti ofar,
Lifir skálds önd dygð þrifin,
Lifir skálds nafn í lofi,
Lifir skálds grøf hrós yfir.
Lifi skálds minning ljúfa!
Lifi skálds stærsti bifur!
Lifi skálds ljóða-gjafir!
Lifi skálds merkis skrifin!

# Fyrsti parturinn

innihaldandi

**nokkra sálma og kvædi**

út af heilagri ritningu.

---

## Sálmur um sköpun veraldar.

Af 1. Mós. b. 1. kap.

Lag: Ovinnanleg borg er vor gud.

I upphafi fyrir sitt eilíft ord, almáttugur gud skapti himin og líka hér med jörd, af hreinum guddóms krapti, fagurt ljós, firmament, flód og þurrlendid hent, gros, jurtir, grænkud tré, gaf þeim og frjóvseme, med ilm og aldin sapti.

2. Sól, túngl og stjörnur setti hann, sjálfur á festing skæra, líka svo fuglinn létt-færan, um loptin kann sig hræra; í flódi fiska-kyn, fénad og dýrin hin, skepnur skríd-andi um fold, skapti seinast af mold, mann og hans kvinnu kæra.

3. Himininn klár og hýr þá var, hreinan gefandi ljóma, jørdin án mædu ávøxt bar, med alls kyns aldin-blóma, skepnurnar allar eins, ei fenndu nokkurs meins, madurinn hafdi um heim, herradóm yfir þeim, í sælu, réttlæti og sóma.

4. Svo er nú drottins ordid eitt, sem øllu vid makt heldur, án þess ad gjört er ekki neitt, almætti hans því veldur; þad ordid eilift er, allt gott færir med sér, hver, sér þar heldur vid, hreppir eilífan frid, gledst þar af hugur helldur.

5. Jesús er eilift ordid þad, einka lausnarinn gódi, fyrir hvern allt ad er skapad, afsviptir sorgar módi; hann øllu heldur vid, hann sannan gefur frid, hann slítur hryggdar bønd, hann bætir meinin vønd; føgnum þeim fridar sjódi.

6. Jesús er gledi eilíf ein, øllum þeim á hann treysta, hann er sú bezta bótin hrein bønd synda kann afleysta; vor bótin be[...] til sanns, bæn heyrir syndugs manns, ha[...] bætir bøl og þrá, burtsviptir hryggdum fr[...] gefandi nádar neista.

7. O! hvað opt verð eg orðlaus hér, eymdir mínar því valda; lífsnar orð, Jesú, legg þú mér, lát mig ei synda gjalda; gleð þú mitt sorgfullt sinn, sætasti Jesú minn. Láttu mig þjóna þér, með þýðri lofgjörð hér, nú og um aldir alda.

## Inntak úr historíu af Balaam.

4. Mós. b. 23. og 24. kap.

Með lag, sem Súsönnu kvæði.

Þá Ísraels lýður, einka friður af Egyptó, út réð gánga, eyðimörk lánga yfirdró, á Móabs völlum þreyttur þó, þá um síðir landtjöldum sló.

2. Móabita og Medianita mönnum þá stýrði karskur, kænn og vaskur kóngur sá, Balak hét, sem birta má, bægja vill þeim landinu frá.

3. Ei sér treysti hann með hreysti að halda stríð, ángri mæddist, af því hræddist Ísraels lýð; við sína menn hann sagði' um hríð: senn mun búin ófriðar tíð.

4. Ísraels múgur mannvals drjúgur Maabs láð, allt mun eyða, auðæfum sneiða og

auka' oss háð, eins og fé, sem ei er gáð, upp vill ræta jurtir og sáð.

5. Um þann tíð hjá Arams lýð var einn sá mann, bókin efnir beint og nefnir Balaam þann, spádóms-mennt og konstir kann, kóngurinn vill, að fundinn sé hann.

6. Síðan beiddi og svo tilreiddi sendimenn, að Balaam fyndi og fljótt með skyndi í fjærlægð senn, honum segið orð mín enn: ómakslaunin geld eg þér tvenn.

7. Af Egyptalandi fólk flýandi flokkum tveim, ógna lið með sorga síð mig sækir heim, bið eg þú komir að bölva þeim, bæði færðu virðing' og seim.

8. Móabs æðstir herrar hæstir hlýddu gram, stórar háfur, gersemis gáfur greiða nam, bráðlega hittu Balaam, báru síðan erindin fram.

9. Balaam þýður beiddi blíður: bíðið hér; á morgun svarið, fyr en farið, fáið þér, þegar vís eg orðinn er alls, sem drottinn kunngjörir mér.

10. Þessa nóttu þegar í óttu um þenn an hag guð spyr hratt, það segi' eg sat

með svoddan slag: hvaða menn með hefndar plag, hingað komu til þín í dag?

11. Balaam sagði, senn að bragði: sendi mér Balak menn, og biður mig enn að bjarga sér, af Egyptalandi ógna her, innfallinn í ríkið hans er.

12. Það eg fregna, hann þykist ei megna þeim á mót, sá vill mig að frelsa sig og fremja blót, svo bølvan yfir þá falli fljót, og fólkið hreppi afdrifin ljót.

13. Hér um skýrir hann, sem stýrir hauðri og heim: þó þér bjóði buðlúng rjóði brendan seim, lát þá sjálfa hverfa heim, hvergi skaltu fara með þeim.

14. Við Móabs menn að morgni senn hann mælti í stað, yður búið, burtu snúið Balaam kvað, gjøri eg ei það sem buðlúng bað, bannað hefir drottinn mér það.

15. Þessir gánga leið svo lánga, að ljóðin tjá, Balaams svørum, sínum førum søgðu frá. Kynlega við það Balak brá, bjó til aðra sendimenn þá.

16. Oðlíng fyrri eins og fyrri uppásló, af sínum vinum, vildari hinum valdi þó.

Til Balaams seggja dróttin dró, dýrar gáfur kónguriun bjó.

17. Spámann fundu fródir í lundu, og fluttu þar, erindin sín med ordin fín, sem ásett var, skíra gull og gersemar; gaf þeim aptur Balaam svar:

18. Þeim ydur sendi af sinni hendi segid þér: þó húsin full med glóandi gull hann gæfi mér, mun eg ei gjøra hid minnsta hér, meir en drottins befalning er.

19. Sømu nótt þá seggja drótt í svefni var, Balaam beiddi, gud honum greiddi gløggt andsvar, til Móabs lands þú med þeim far, minnstu, hvad eg skipa þér þar.

20. Ösnu býr og brádlega snýr med brøgnum þá. Eingill hreinn af himni einn, sem hér skal tjá, midri leid þeim mætti á, mátti hann ekki Balaam sjá.

21. Asnan hneigir út af vegi, er eingil sér: Balaam hryggdist hart og styggdist, hún var þver. Himnabúinn fridur fer fram á leid, þar girding ein er.

22. Sinn var gardur hár og hardur á hverja hlid. Eingill merkur stór og sterkur

stód í mid; fóturinn kreistist vegginn vid, vard ad gánga þanninn á snid.

23. Enn fór leingra' á einstig þreyngra eingill skær; asnan veginn eingvanneginn arkad fær. Balaam hana bistur slær, á bædi knén því fellur hún nær.

24. Asnu munni einn er kunni upplauk þá, himins og láda hæstur dáda herrann sá; fékk hún mál og fljótt nam tjá: fyrir hvad gjørdir þú mig ad slá?

25. Balaam rjódur, reidi módur, rétt svo tér: ertu slegin, af því veginn ekki fer; hefdi eg spjót í hendi mér, hefna skyldi daud-inn á þér.

26. Eg þín asna, lima lasna, lúin og þreytt, frá barndóm þínum bar þig á mínu baki greitt, hvenær gjørdi eg eins þér eitt? Aldrei fyrri, sagdi hann, neitt.

27. Um þá stundu opnast mundu hans augun þá, af drottins rádi, rétt svo tjádi ritning frá, blessadan eingil Balaam sá, med brugdnu sverdi veginum hjá.

28. Mjøg sig hneigdi mjúkt og beygdi madurinn brátt. Eingill traustur, tryggur,

hraustur taladi hátt: hvar fyrir slóstu þris-
var þrátt, þína ösnu af reidinnar mátt?

29. Ef hún eigi viki úr vegi, ad visu
hér, henni hægt eg hefdi vægt, en hefnt á
þér, vegur þinn ei þókknast mér. Þar á
móti Balaam tér:

30. Eg ei þekkti, og þad mig blekkti, ad
þú varst nær, vik eg frá, ef væri sá þinn
vilji kær. Aptur svarar eingill skær: ord-
lof þú til reisunnar fær.

31. Varast skaltu um fram allt, kvad
eingill greitt, ad mæla par fyrir þeingil
þar, þó þess sé beitt, taladu ekki annad
neitt, utan hvad eg skikka þér eitt.

32. Balaam frá eg ferdast þá og finnur
fljótt, Móabs gram, sá gledjast nam i ged-
inu hljótt, bad hann vildi búast skjótt, og
bölvun leggja á Israels drótt.

33. A fjalls hædum ei fjærstædum ölt-
urin há, byggdu sjø, og fyrna fé þar fórna
á, til var reynt um tíma þrjá; takast ekki
bölvanin má.

34. Vid offrid hvert gekk Balaam burt
frá brögnum snar, med sama hætti honum

mætti herrann þar, mátti hann ei mæla þar, móti því sem tilskikkad var.

35. Balak reiddist beint og beiddist brátt í stad, hvorki þessa hata né blessa hilmir kvad, spámann komst svo ordi ad: ekki leyfir drottinn mér þad.

36. Spádóm blídan furdu fridan fékk hann tjád, þad er rétt med røkum sett í ritning skrád, kóngi lagdi hann kænsku rád, kom því seinna refsingin bráð.

37. Ferdast heim af fundi þeim, sem frá er téd. Israel hart á heidna snart þá herja réd, eyddu fólki en eignast féd, einn-inn féll þar Balaam med.

---

## Historía af Jónasi spámanni.

### Fyrri sálmurinn.

Tón: Nú bid eg, gud, þú nádir mig.

Til Jónas spámanns taladi gud: tak þig strax upp, sem eg þér baud; brádlega ferd þín byrjud sé, í borg þá stóru Ninive, þú skalt færa þeim fregnir þær, fordjørfun strax sé búin nær, hróp þeirra synda heyri eg þrátt, hefnd og refsing þeim kemur brátt.

2. Þar eptir Jónas þeinkti víst, þángad vildi hann ferdast sízt, drottni hugdist ad flýa frá, fordast svo mætti skikkun þá, leigdi sér far og gjald til gaf, gekk strax á skip og lagdi í haf, ætladi svo í annad land, um herrans bod ei sinnti grand.

3. Sem þeir nú landi sigldu frá, sjórinn tók mjøg ad ýfast þá, ofur stormvindur í einum svip, yfirdreif bædi menn og skip, farminum hratt þeir hrundu út, hver bad sinn gud med trega og sút. Jónas í lyptíng lá og svaf, lítid sig allt um þetta gaf.

4. Skipherrann um þad undrast vann, ofan gekk þá og vakti hann, sagdi: hvar fyrir sefur þú? sár lífs-naud ad oss geingur nú, rís upp og þegar þinn gud bid, ef þad má ske hann veiti lid, úrrædalausir allir vér, í þessum stormi tøpumst hér.

5. Af hjarta bádu og hétu þeir, hættur stormvindur ór því meir, ásamt þeim kom, þad einhvers vøld, yfir þá leiddi hefndargjøld, hlutfalli varpa hratt í stad, hjá Jónas sídast lenti þad. Óttast mjøg þegar svoddan sjá, svo vid hann allir ræddu þá:

6. Seg oss, hvad helzt þú hefir gjørt, frá hverri þjód þú kominn ert, eda hver til þess eru røk, oss hendir slíkt fyri þína søk? Eg er, kvad hann, ebreskur mann, og svo trúi á drottinn þann, hver himin skapti, heim og sjó, hvers befalníng' eg gleymdi þó.

7. Sem hann hid sanna hermdi frá, hræddir úr máta spurdu þá: gjørdu nú sjálfur gjørla á skil, gjøra hvad eigum vid þig til? Varpid mér, sagd' hann, sjóinn í, svo verdid þér úr háska frí; eg veit, ad minna vegna hér, vindurinn þessi kominn er.

8. Mótródur þúngan þreyttu þeir, þá vóx stormurinn lángtum meir; grátandi bádu' af geistum mód: gud reikni oss ei þess manns blód. Svo var Jónas' í sjóinn søkkt, samstundis vedrid mæddist snøggt. Mennirnir óttast mjøg vid þad, miskunar sérhver drottinn bad.

9. Drottinn sendi einn hvalfisk hratt, hann kom þángad, sem Jónas datt, uppsvelgdi manninn í sinn kvid, ei stód þar sídan leingi vid. Hann bad og grét med beiskri þrá; bænheyrdi gud andvørpun þá.

Þrjá daga luktur lá hann þar, líka svo nætur eins margar.

10. Fyrir guds ord og almátt hans, aptur fiskurinn rann til lands, óskoddudum med øllu þó, upp á þurt landid Jóna spjó. Mikil er, drottinn, miskun þín, minnstu hér einninn líka mín, svo eg frelsadur sýngi þér, sanna lofgjørd, sem skyldugt er.

## Sídari sálmurinn.

Tón: Náttúran øll og edli manns.

Annad sinn drottinn eptir þad, aptur vid Jónas sagdi: í Ninive þann stóra stad, strax skaltu fara' ad bragdi, ordsending ber, sem birti eg þér, borgarmønnum þar inni; hann ferdast þá, sem fljótast má, festi þad bod í minni.

2. Þriggja dagferda stadurinn stór, stendur ad Ninive væri, eina dagleid svo út af fór, alvarlega sem bæri, kallandi hratt, eg segi þad satt: svo vill drottinn tilhaga, borg ydar há, umturnast á, innan fjørutíu daga.

3. Brádlega trúdu borgarmenn, bodskap drottins þá feingu, úngir og gamlir allir

senn, iklæddir sekkjum geingu. Kóngurinn þá, er svoddan sá, sinn búning af sér lagdi, í øsku sat og grátid gat, gaf skikkun slíka og sagdi:

4. Ei skulu menn og mállaus dýr, matar né fædis neyta, hver, sem hér innan borgar býr, bidji med idrun heita, afleggid brátt á allan hátt, illsku og synd margfalda, má ske drottinn minnist vor enn, svo megum lífi halda.

5. En sem gud drottinn alla sá, yfirbót Ninive manna, miskunar hrærdist herrann þá, hann elskar trúna sanna, ángra sig lét, þad ádur hét, illsku þeirra ad hefna, veitti þeim grid, gaf líkn og frid, gæzkunnar sinnar vegna.

6. Jónas fékk séd sú fordjørfun, sem fyrirspád hann hafdi, yfir þá koma ekki mun, ógæfan leingi tafdi, honum þad mest, misþóknadest, mælti med hryggu bragdi, eg vissi þad og þar kom ad, sem þánkinn mér ádur sagdi.

7. Þitt sinni, drottinn, þekki eg bert, því vildi' eg undan flýja, mønnunum jafnan mildur ert, sem mót þér syndir drýgja, idrist þeir nú, þeim þyrmir þú, þó látir hefnd

tilsegja, spádóms orð það, fyrst fann ei stað, fýsir mig helzt að deya.

8. Andsvar af drottni aptur fékk: að sinnar reiði gætti. Strax síðan burt úr staðnum gekk, sturlaður með þeim hætti; hreysiskorn þar, því hitinn var, yfir höfði sér hann byggði, og vildi fá með sanni' að sjá, hvað sinn spádómur dygði.

9. Drottinn lét vaxa ljósan lund, lángt sínar greinir breiddi, sá rann þar upp í samri stund, sæt blómstur þó framleiddi. Við þetta gras gladdist Jónas, geðfróa hann sér taldi, þá sólin hrein sárheitt að skein, sig í þess skugga faldi.

10. Guð drottinn lét þá lundinn þann, litinn orm stínga kunna, uppvisnaði með öllu hann, ofan féll strax til grunna, austanvind greitt, sólskin sárheitt, senda réð herrann mildi. Jónas þreyttest og þjáðist mest, þá sagðist deya vildi.

11. Þykist þú, Jónas, reiðast rétt? ræddi guð, með þeim hætti, þennan lund hafðir þú ei sett, þín hönd hann ekkert bætti, á einni nótt, hann upprann skjótt,

adra þó strax visnadi, mjøg þanninn hér úr máta þér, mislíkar svoddan skadi.

12. Skylda eg ekki øllu meir, afvenda reidi minni? tólf sinnum tíu þúsund þeir, þar eru í stadnum inni, sem eingin skil, skynjudu til ad skipta' um vinstri og hægri; nú sjádu hér, næsta er mér, nádin en reidin þægri.

---

Nokkrar saungvísur
af þeim sérlegustu
## Krists kraptaverkum.

### I.) Um brúdkaupid í Kana. Jóh. 2.

Lagid er, sem vid Ekkjuró.

A Galileu ládi, ljóst í Kana stad, med gegnd og gódu rádi, gjørdist brúdkaup þad, módir drottins dvaldist þar, Jesús og svo sveinar hans, sjálfur bodinn var.

2. Þá nam drykkur þverra, þetta María sér, hún gekk til vors herra, hógvær þannig tér: Son minn kær, þar vantar vín. Hvad hef eg med þig? Kristur kvad, komin er stund ei mín.

3. Við þénara þýðust sagði: það, sem býður hann, gjörið brátt að bragði. Birt' eg atburð þann: steinker sex þar stóðu rétt, tóku mælira tvo eður þrjá, til hreinsunar sett.

4. Bølið trúi' eg batni, býður Jesús enn: farið og fljótt af vatni, fyllið kerin senn. Barmafull þeir bera þau inn; kæmeistaranum færa fyrst, frelsarinn bauð um sinn.

5. Vatn að víni orðið, víst hann smakkar þá, gekk svo beint fyrir borðið, brúðgumann kallar á, hann vissi ekki, hvaðan það var; øðruvísi, en er nú skeð, oss tilhaga bar.

6. Vant er vínið bezta, að veita allra fyrst, þar til geðið gesta gleðst með heiður og lyst; léttara síðan bjóða ber. En þú hefir það hið góða geymt, og gefið seinast hér.

7. Jesú jarðteikn fyrsta, Jóhannes segir það: hjóna hjartað tvista, hann í þessum stað, gladdi og sýndi sína dýrð. Honum sé bæði heiður og þøkk, af huga' og munni skýrð!

## II.) Um konúngsmanninn af Kapernaum.

Jóh. 4.

Tón: Gæzku guðs vér prisum.

Kóngsmann frá Kapernaum, kom einn til

Jesú þar, þá fyrir døgum fáum, frelsariinn geinginn var, beint inn í Kana-borg, og sagdi, son sinn væri, sjúkur og dauda nærri, því bar hann þúnga sorg.

2. Traudlega trúad fáid, taladi Jesús þá, nema þér nokkur sjáid, nýstárleg jardteikn há. Aptur þá ansar hinn: háskinn er harla brádur, herra, kom þú nú ádur, en sálast sonur minn.

3. Huggædi herrann mæddi, hans naudsyn gjørla sér, vid fødurinn frá eg svo ræddi: far þú, son þinn lifer. Madurinn merkti þad; trúdi því eina ordi, á sig þad reida-þordi, gekk svo gladur af stad.

4. Hans þjónar honum mættu, heimleidis vegi á, húsbóndans hjartad kættu, huggladir mæltu þá: sonur þinn lifir ljóst. Hann spyr: nær sorgin sjatnad, og sóttin hefdi batnad? Þeir ansa med eingan þjóst:

5. Senn um sjøunda tíma, svo bar þad til í gær, koldunnar sárum svíma, sviptist hann øllum nær. Þá fornam fadirinn, í sama mund svoddan skedi, sem Jesús honum tédi: sjá, lifir sonur þinn.

6. Hér við hann varð mjøg glaður, og vel í trúnni hress; hver hans heimilis maður, honum fylgdi til þess, krapt herrans kenndu bert. Það Jesú jarðteikn annað, Jóhannes hefir sannað í Galileu gert.

III) Um þann, sem þrjátíu og átta ár lá sjúkur. Jóh. 5.

Með lag, sem Píslar minning.

Heiløg var þá haldin ein, hátíð Gyðingauna, sonur guðs, sem græðir mein, gánga réð sjálfur með, til Jerúsalem, sem er sked, að sið Israels manna.

2. Í borginni var brunnur sá, Betesda að heiti, fordyr voru fimm þar á, fékkst þeim skjót heilsubót, sem mæddu alls kyns meinin ljót, og margir trú' eg þess neyti.

3. Eingill drottins eina tíð, upp réð vatnið hræra, svo hver helzt af sjúkum lýð, sem að bar fyrstan þar, ef sig þvoði, alheill var, eins og barnið skæra.

4. Í fordyrunum, sem frá er greint, fjøldi sjúkra lýða, var og beið svo vissi beint, nær vatnið skært yrði hrært, því lækna vildi lífið sært, af laungum sóttar kvíða.

5. Medal þeirra sjúkdóms-sár, sagt er madur væri, þrjátíu øll og átta ár, aunur neyd þúnga leid, eptir lækning blídri beid; bølid trú' eg hann særi.

6. Þegar Jesús þenna sá, þar ad gløggt nam hyggja, ad leingi hafdi þúnga þrá þol- ad hann, mæla vann herrann vid þann veika mann: viltu lækning' þyggja?

7. Svara nam hinn sjúki brátt, sárum haldinn kvida: einn vard eg því eptir þrátt, einginn hér bjargar mér, annar jafnan fyrri fer, frekt hlýt eg ad bida.

8. Herrann, þegar heyrdi þad, um hann í brjósti kenndi, gakktu hédan heill í stad. Hinn þess naut, minkar þraut. Þína sæng þú ber á braut; í burtu madurinn vendi.

9. Sem nú Júdar sáu þad, hann sæng á herdar lagdi, honum gáfu þeir høstugt svar: hátíd sú, ein er nú, bodordin því brýtur þú? beint hann aptur sagdi:

10. Sá, sem hefir mig heilan gjørt, héd- an baud eg færi; sjálfur vid mig sagdi bert: sjádu hér, tak med þér þína sæng, því frjáls þú fer. Þeir frétta, hver hann væri?

11. Madurinn kvadst ei þekkja hann, né þeim þar framar gegna; því herrann burtu vikja vann, þá var hans bætt, meinid hætt, fékk hann þess ei framar gætt, fólks mergdarinnar vegna.

12. Í Musterinu madurinn sá, mætti vorum herra: sóttlaus ertu, sagdi hann þá, syndga ei nú framar þú, ad þig hendi ei ánaud sú, né annad hálfu verra.

## IV.) Um storminn og þann óda mann.
Mark. 6.

Tón: Gæzku guds vér prisum.

Sjúfur med lærisveinum, lausnarinn sté á skip, hvirfilvind óvart einum, yfirsló þegar í svip; ókyrdist haudur og haf, undir áföllum lágu, einga mannhjálp því sáu, en herrann sjálfur svaf.

2. Í þeim lífsháska hræddir, hann fóru' ad vekja brátt, af móð og ekka mæddir, mæltu svo allir hátt: hjálpa oss herra kær, lát þig ei litt um varda, ad lægja storminn harda, svo ekki sökkvum vær.

3. Hann vaknar víst og rædir, vid þá

alla senn: hvad er þad ydur hrædir, helzt of veiktrúa menn? og settist upp vid þad. Þá baud, ad vindurinn þegdi, þjótandi vatn sig legdi; blæ-logn vard strax í stad.

4. Undrast allir vid þetta, er atburd lita þann, hver annan hér um frétta: hvílíkur er þessi mann? strax þá hann talar til höfudskepnanna, honum hlýda, svo framar vonum, hans einu ordi í vil.

5. Lending í logni feingu, vid landid Gadará, skjótt er frá skipinu geingu, skedi tilburdur sá, adkom þar ódur mann, af illum öndum hrakinn, ólmur, vitstola, nakinn; greinir svo gløggt um hann.

6. Ur járni og böndum bædi, brotizt opt hafdi sá, med grimmd og ógna ædi, svo eingin ferdast má, um þann almennings stig, dvalizt á døkkvum heidum, í daudra manna leidum, lemjandi sjálfan sig.

7. Fram fyrir Jesú fætur, falla hann gjørdi brátt; andinn mjøg illa lætur, æpandi kallar hátt: hvad hefi eg þó med þig, sanni guds sonurinn kæri, svo, fyrr' en tíminn æri, kæmir ad kvelja mig?

8. Þá sagdi grædarinn gódi: grein mér þitt heiti þó. Audinn mælti af módi: mitt nafn er: Legió. Þad hafa hyggnir menn, sex þúsund samanteiknad, sex hundrud þar med reiknad, sextíu' og sex til enn.

9. Djøflar af døprum trega, dæmdir í heljar víst, bádu mjøg mikillega, mildastan Jesúm Krist: fyrst þadan færi út, ad hann ræki þá ekki, í undirdjúpanna hlekki, med kaldri kvøl og sút.

10. Frelsarans leyfi feingu, ad fara' í svínin þar, sem um þær grundir geingu, girnd sú djøflanna var; þau voru tvo þúsund; øll strax med ógn og kvida, út í vatnid hýda, og sukku' á samri stund.

11. Svín-hirdar fullir sorgar, settu á flótta heim, báru þá fregn til borgar, um bagann, sem vard fyrir þeim; hinir, sem hlýddu á, undrast og ótta feingu, almennt úr stadnum geingu, svoddan tilburd ad sjá.

12. Hann, sem var ádur ódur, og einga skynsemd bar, sat nú sidferdis gódur, sannheill hjá Jesú þar; landsmenn þá litu hann,

hinir, sem hjá voru staddir, í huga' og sinni gladdir, sögdu þeim allan sann.

13. Herrann blind-heimskir bádu, burt ad víkja um sinn; sálar gagnsins ei gádu, þeim gramdist fjárskadinn; svo villtir voru þeir, hjálpar-von sæla hrepptu, henni viljandi slepptu, en mættu svínin meir.

14. Hann, hver ed læknazt hafdi, hér, sem var ádur téd, lausnarann leyfis krafdi, ad líka færi med; en Jesús sló því af: far heldur heim til þinna, hjálpræðid skalt þeim kynna, sem gud þér sjálfur gaf.

## V.) Um kraptaverk Krists á braudum milli 5000 manna. Jóh. 6.

Med lag: Einn herra eg bezt ætti.

Yfir um vatnid eina, sem er í Galileá, Jesús med sína sveina, sjálfur ferdadist þá, Tiberías nokkud nærri (nafn þetta stadurinn bar), páskum víst var ei fjærri, ad venju Gydinga þar.

2. Fylgdi þeim múgur manna, mikill á þeirri tíd, góðvild hans sáu sanna, vid sjúkan og auman lýd; upp á fjalls-hædir ein-

ar, endurlausnarinn gekk, líka hans lærisvein-
ar, lítla stund hvíld þar fékk.

3. Upp leit hann ljóst að bragði, lýðs
fjölda mikinn sér, við Filippum frá eg sagði:
fólkið matlystugt er; til kaups hvar máttu
meina, menn fái brauðum náð? Svo vildi
sveininn reyna, þó sjálfur vissi nóg ráð.

4. Þá Filippus tók að telja, tvö hundr-
uð peninga verð, fram þó menn feingi' að
selja, fullnægja mun ei gerð. Andreas á
það heyrir, einn bróðir Símonar, vildi ráð
veita fleiri, viðstaddur gaf til svar:

5. Ungmenni eitt eg kenndi, Andreas
mæla réð, fimm bygg-brauð hefir í hendi,
hér og tvo fiska með, hvað skal það þó fyri
þessa? Þá talar Jesús hátt: segið, þeir
fái sér sessa, saman í riðlum brátt.

6. Herrann réð brauðin blessa, braut og
til himins leit, fram báru fæðu þessa, fyri
svo marga sveit; allir þeir urðu saddir,
eins af fiskunum með, og vel í geðinu gladd-
ir, guðs verk svo feingu séð.

7. Leifunum saman safnið, sonur guðs
þannig tér, og eingu af þeim hafnið, svo ekk-

ert spillist hér. Er þad ei undur ad heyra, allt þetta svo til bar, afgángs vai ollu meira, en efnid í fyrstu var?

8. Tólf karfir fullar feingu (frá eg svo skriptin tér), og þær leifar afgeingu, svo ekkert spilltist hér; fimm þúsund fæddi' hin hreina, forsjónin mildigjørn, karlmenn upptalda eina, fyrir utan konur og børn.

9. Um kvøldid lét lærisveina, landinu halda frá, hann var eptir alleina, ástarbæn gjørdi þá. Mótvidri megnt þá þjádi, mjøg dimmt af nóttu þó; Jesús þar gloggt ad gádi, gekk á þeim djúpa sjó.

10. Nær um fjórdu eikt nætur, nálg-adist Jesús þá; þeir hafa' á þessu gætur, þóktust forinju sjá, upp kalla ótta mæddir, en Jesús annsar kær: verid allir óhrædd-ir, eg er hér sjálfur nær.

11. Pétur svaradi og sagdi: sértu þad, herra minn, bjód þú eg komi' ad bragdi, beint nú á fundinn þinn. Far þú, kvad frelsarinn mildi; forlét hinn skipid þá, og gekk, sem greidast vildi, gladlega sjónum á.

12. Báran réd brátt ad stokkva, biladi

Pétur traust, hann tók þá senn ad søkkva, sagdi med hárri raust: hjálpa mér, herrann blídi. Hann Jesús ad sér dró, og spyr, því tæpt hann trýdi, til skipsins geingu þó.

13. Ord sitt og bús-rád bædi, blessi oss Jesús hreinn, svo lífs og sálar fædi, sedji þá hvern og einn. Sjá til eg søkkvi eigi, i synda daudann hér, heldur ad hjálpast megi, haltu vid trúna mér.

## VI.) Um þann, er blindur var fæddur. Jóh. 9.

Lagid: Fadir á himna hæd.

Jesús frá Júda lýd, úr Jerúsalem þá tíd, útgekk sá øll mein grædir, um þad Jóhannes rædir.

2. Sat madur sjónlaus þar, sá blindur fæddur var, hartnærri herrans vegi á helgum sabbats degi.

3. Lærisveinar hann sjá, svo spurdu herrann þá: hvort eigin mun illska hans vald eda foreldra gjalda?

4. Hvorki (kvad herrann snjallt), ha[n] sín né þeirra galt; guds verk eiga auglý[s]ast, og á honum ad prísast.

5. Verk guds mér vinna ber, víst medan dagurinn er, idju mann einga fremur, yfir þá nóttin kemur.

6. Eg er ljós heimsins hreint, herrann taladi beint, medan umgeingni mína, hjá mønnum læt eg skína.

7. Herrann þá hrækti á jørd, heilnæm var lækning gjørd, saur hrærdi saman ad bragdi, svo vid hans augu lagdi.

8. Hann baud þeim blinda þá, í brunni Silóá, þvo sér skjótlega skyldi, ef skíra sjón ødlast vildi.

9. Hann gekk og gjørdi svo, greitt nam sín augu þvo, heilskyggn kom þá heim aptur; herrans þvi olli kraptur.

10. Náttúran borin blind, blekkt er af margri synd; minn Jesús mig upplýsi, mér á hjálpar veg vísi.

## VII.) Um Lazarum af dauda uppvakinn.

Jóh. 11.

Lagid: Upp á fjallid Jesús vendi.

Jóhannes segir med svoddan hætti: sjúkur madur eitt sinn lá, Lazarus, þad sorgum sætti,

sá var í Bethaniá; systur tvær er innt hann ætti, önnur nefnist María.

2. Hún var það, sem herrans fætur hentuglega smyrja réð, hári sínu svanninn mætur, síðan aptur þurkar með, orði lífsins gaf að gætur, í guðspjallinu svo er téð.

3. Marta einnig önnur heitir, orði drottins hélt sér að, lausnaranum, sem lækning veitir, létu segja þegar í stað: sá þú elskar, sóttin þreytir; svaraði Jesús upp á það:

4. Ekki' er svoddan sóttin eina, send honum til dauða fyrst, heldur að drottins dýrðin hreina, dásamlega auglýsist; öll þau systkin', eg má greina, elskuð voru þó af Krist.

5. Dagana tvo þar dvelja réði, tilsett var það herrans ráð, að vilja guðs sú skikkan skeði, hann skamtar tíma' af sinni náð; fylgdarmönnum frelsarinn téði: förum nú á Gyðinga láð.

6. Postular svara með gegndar gildi, gjörla senn á þessa lund: Gyðinga fólk þig grýta vildi, þá gekkstu þar um eina stund; hvar fyrir girnist meistarinn mildi, meir að koma' á þeirra fund?

7. Tímar eru tólf í degi, taladi spekin guddómlig, birtu njóta madur megi, mun sá gánga réttan stig, hinn, sem ljósid hefir eigi, hrasar opt ag meidir sig.

8. Lazarus vor vinur sefur, vekjà fer eg aptur hann, þeir segja: batnad honum hef- ir, hvild og værd ef finna kann; þenna skilning þánkinn gefur, þeim um svefn nátt- úrlegan.

9. Lausnarinn þeim ljóst nam gegna: Lazarus daudur er til sanns, en eg fagna ydar vegna, ad ei var eg þar í byggdum lands, vér skulum þetta framar fregna, förum nú og vitjum hans,

10. Tómas postuli tók ad segja, Tviburi sá nefndur var, lærisveina hug vill hneigja, hann gaf fyrir alla svar: látum oss fara' og líka deya, ljóst med honum einnig þar.

11. Kom af guddóms krapti högum, Kristur til Bethaniá, Lazarus fyrir fjórum dögum, framlidinn í gröfinni lá, úr borg og nánum byggdarlögum, bar ad marga Gyd- inga þá.

12. Þessir gættu gódrar skyldu, geingu

í sorgar-húsid inn, gedsvølunar máli mildu, mæltu (svo eg ritad finn), hrelldar systur hugga vildu, harmandi' eptir bródur sinn.

13. Marta heyrdi, meistarinn kæri, mildur kæmi um þetta skeid, og í nánd ad vísu væri, vildi gánga heim á leid, móti honum frá' eg hún færi, fyrst, en María eptir beid.

14. Angrud Jesú andsvør greidir: ef þú hefdir verid hér, bródir minn (því naudsyn neydir), nú lifdi sá daudur er, en eg veit, hvad um þú beidir, allt mun drottinn gefa þér.

15. Aptur Jesús annsa nádi: upp skal rísa bródir þinn. Víssulega, vísid tjádi, veit eg af því, herra minn; hann mun verda lífs á ládi, þá ljómar efsti dagurinn.

16. Upprisan og einnig lífid, er eg, sagdi Jesús þá; efalausir um þad blífid, allir, sem mig trúid á, þó fundid hafid heljar kífid, hver mér treystir, lifir sá.

17. Sá hér lifir enn med anda, og á mig treystir heimi í, hættulegt má hel ei granda, hann skal verda dauda frí, sviptur øllum sálar vanda, segdu mér, ef trúir því?

18. Trúi eg þú sért, kvad svanninn grætti, sonur guds med helgum sid, og Kristur sá, sem koma ætti, ad kvitta af syndum mannkynid. Samtal þeirra' ad sinni hætti, svo skildist hún herrann vid.

19. Marta hrindir hørdum módi, heimleidis med skyndi fer, vid Maríu gjørdi mæla' í hljódi: meistarinn er kominn hér, bidur þín sá grædarinn gódi, og gjørir bodskap eptir þér.

20. Uppstód María' og med skyndi, út gekk frá þeim múga manns, svo hún dýrstan drottinn fyndi, dundi vatnid hvarmarauns; þá var Jesús þýdur í lyndi, þar sem Marta kom til hans.

21. Fólkid sér, ad fljótt úr máta, frá þeim víkur gefni lins, allra þeirra ein var gáta, sem efnid greinir hródrar míns: eflaust út hún gekk ad gráta, hjá grøfinni hans bródur síns.

22. Til herrans kom med hryggdar talid, hjartad mæddi sorgin stinn, ángur í brjósti fann hún falid, féll á kné og ræddi um sinn:

hefdir þú hjá oss, drottinn, dvalid, daud-
ur væri' ei bródir minn.

23. Þegar hann sá ad sorgar-pláta, sárt
um hennar brjóstid lá, fólkid allt í annan
máta, ángrad leit þar standa hjá, sonur
guds tók sjálfur ad gráta, í sínum anda
gramdist þá.

24. Sín á milli margur ræddi: má nú
sjá hans elsku-ged, sá sem blindan gjorla
græddi, gat hann ekki vid því séd, ad daud-
inn svo yfir einn mann æddi? álmúginn
þad mæla réd.

25. Lazarus hvar lagdur væri, lausnar-
inn svo spurdi ad; en þeir svara svo, sem
bæri: sjá þú, herra, þenna stad. Miskun
un trúi' eg hjartad hræri, hryggdist Jesús
enn vid þad.

26. Til grafarinnar herrann hreini, hér
næst sjálfur gánga vann, hún var byrgd
med stórum steini, strax baud þeim af taka
þann, svo þeir gjørdu, sem eg greini; sagdi
Marta þá vid hann:

27. Líkid finn eg fúlna' um sídir, fjóra
daga hér þad lá. Ordum þessum herrann

hlýdir, henni aptur gegndi þá: sagdi' eg ekki, ef þú trýdir, ad þú mundir guds dýrd sjá?

28. Til himins leit þá lausnarinn mildi, lofud sé, fadir, gæzkan sú, hvers eg af þér óska vild, um þad mig bænheyrir þú, eg tala svo fólkid trúa skyldi, til þeirra mig sendir nú.

29. Lausnarinn kallar ljósum hljómi: Lazarus, þú kom hér út. Hinn daudi hlýddi drottins rómi, døvrum reyrdur líkbands-hnút; leysid hann: kvad herrann frómi, svo hédan gángi firrtur sút.

30. Júdar margir trúa tóku, táknid slíkt er sáu þeir, ljúfum Jesú lotning jóku, lofs-tír þessi aldrei deyr, Farísearnir svika klóku, sig forhertu æ því meir.

31. Því eg treysti, og þad er mín trúa, þú ert, Jesú, lífid mitt, þá hédan burt frá heim skal snúa, held eg mér vid ordid þitt: sálunni virztu sælu' ad búa, svo hún verdi' af naudum kvitt

---

Stutt innihald

pínu og dauda

# drottins vors Jesú Krists.

Lagid: Hvar mundi vera hjartad mitt.

Mér er af hjarta minnisstætt, miskunarverkid þad, Jesús var staddur í hryggdum hætt, harmandi þrisvar bad, Gydinga lid þó geingi ad hrætt, greip hann og batt í stad, sálin hans var af sorgum grætt, sár pínan gekk þar ad.

2. Hann hefir dregid, hrakt og hrjád, hardsvírud Júda drótt, med lygum, spotti, hróp' og hád, hrækjandi á hann skjótt, var honum hvorki værd né nád, veitt um þá dimmu nótt; allt hann fordæmdi andlegt rád; ei gekk sú rædan hljótt.

3. Heidnum dómara' í hendur fékk herrann, sú grimma þjód, almúginn fram þar allur gekk, æpti med samfelt hljód: fær hann á kross og kvala-bekk, komi' yfir oss hans blód, mordingja lífgjöf meir var þekk, mjög hætt þá kvölin stód.

4. O, hvad grátlegt aumkunar-vert, eitt

var, sem þar til bar: við harðan stólpann streingdur þvert, stóð vor lausnarinn þar, hæsta guðs sonar holdið bert, húðstrýkt með svipum var, æðar, skinn, hørund og svo skert, óskaddað fannst ei par.

5. Þyrnikórónan sviða-sár, sundur hans ennið sleit, blóðið uppfyllti augun klár og allan sjónar-reit; frelsarinn bæði følur og blár, forsmán hverjum hann leit, last-orð, sløg, spélni, spott og dár, sparaði' ei præla-sveit.

6. Tré fimmtán fóta lángt var ljóst, lagt á hans herðar hratt, breitt fjøgra álna þúngt með þjóst, það herma bækur satt, uppgefinn var með ørmætt brjóst, undir því þrisvar datt, um síðir fram þá ferðin dróst, á fjallið Golgata bratt.

7. Særður í kulda klæðlaus þó, Kristur sat lánga tíð, á meðan øll til bøðullinn bjó, bana-verkfærin stríð, ørþyrstum munni einn að dró, edik gallblandað nið, oddbrotna nagla øldin sló, í hønd og fót um síð.

8. Krossfestan hæddu høfðingjar, og hver, sem þar gekk hjá, harmkvæli þúng og háð-

úng bar, herrann um tíma þrjá, síðan burt-slitin sálin var, syndlausu holdi frá, hjartað sárbeittur broddur skar, blóð og vatn rann út þá.

9. Lastorð og brigzl framliðinn fékk, falsara sögðu hann, flokkur prestanna fyrir því gekk, fundu landsdómarann, báðu að geymd sé gröfin þekk, gánga svo ella kann, lærisveinarnir fylltir flekk, flytji burt líkamann.

10. Hermenn vopnaða hann lét strax, halda mjög sterkan vörð; þar vakti inn til þriðja dags, þjóðin sú íllsku hörð. Drottinn reis upp til dýrðar hags, frá dauðum þegar úr jörð og sannrar guðs dýrðar samfélags. Sé honum þakkargjörð.

11. Gleym ekki þessu, sál mín sæl, svoddan vel merkja skalt, sonurinn fyrir sekan þræl, saklaus leið þetta allt, slíkri hans elsku hrósa, og hæl, af huga' og munni snjallt: sigurvers Kristi sýng og mæl, sætt fagnandi ávallt.

12. Ljúfasti Jesú, lof sé þér, sem leiðst þann sára deyð, hvar með þú hefir hjálpað mér, úr hættri kvöl og neyð; lát þú mig

jafnan lifa, sem ber, lasta bønd af mér greid, elsku fadm þinn, þess óska' eg hér, yfir sák mína breid.

---

## Ut af upprisu historíunni.

Lagid: Gæzkuríkasti grædari minn.

Hjartad fagnar og hugur minn, herrann Jesús er upprisinn, kvøl þó á krossi ætti; árla sunnudags er þad sked, ádur en sólin lýsa réd, af guds dýrdar almætti, þýdur, fridur, eingill kemur kraptinn fremur, klárt eg greini, af grøfinni veltir þeim stóra steini.

2. Jardskjálfti mikill skedi þar, skærasta ljóma eingill bar, vardmenn þá svoddan sáu, ótta miklum yfir þá sló, afl og styrkleika frá þeim dró, líka' sem daudir lágu, þegar, vegar, ljósid skapta, lífsins krapta, loksins feingu, heim í borgina hryggvir geingu.

3. Høfudprestana hittu senn, hermdu øll þessi tídinden, hinir þeim hétu gáfum. Segid, ad lærisveinarner, sóktu líkamann burt med sér, þegar vér þreyttir sváfum; hradir, gladir, gjaldid þyggja, þar ad hyggja,

síðan søgðu, líka sem Júðar þeim ráðin løgðu.

4. Aður en dagurinn upprann klár, útgeingu af staðnum kvinnur þrjár, María Magðalena, móðir Jakobs hins minna var, með þeim líka Salóme þar, þær hugðust Kristi þéna, hryggvar, dyggvar, lausnarans vildu, að ljúfri skyldu, líkið smyrja, hver réð aðra þá hljótt að spyrja:

5. Hver mun burt velta hørðum stein? hindrar sá oss á marga grein; þegar, sem litu þángað, opin stóð grøf, en eingill var, alhvítu klæddur líni þar, hræðsla réð hjartað fánga. Hljóðar, móðar, hryggvar kvinnur, sagði svinnur, syrgið eigi, upprisinn Jesúm eg yður segi.

6. Kvinnurnar glaðar geingu heim, græðarinn Jesús mætti þeim, segjandi: verið sælar; þær féllu síðan fram til sanns, á fætur kystu lausnarans; hann réð hýrlega' að mæla: eg bið, að þið, mínum blíðum, bræðrum þýðum, brátt það innið, í Galíleu þér fyrst mig finnið.

7. Magðalena á meðan fer, mjøg fljótt

þángad, sem Pétur er, og Jóhannes med honum, sagdi: líkamann sælastan, sjá hvergi eg né finna kann, burttekinn væri' hann vonum; bádir, þjádir, undrast þetta, er þad frétta, og án tafar, út þángad geingu øll til grafar.

8. Fyrstur Jóhannes framkom þar, fornam, ad grøfin opin var; Pétur þá greitt inngeingur, sáu þar løgd línklædin mjúk, líka og Jesú sveitadúk, forundrun af því feingu, allskjótt og fljótt, aptur snúa og því trúa øllu' ad sønnu, burt muni líkid borid af mønnum.

9. Æpandi María úti stód, inn í grøfina horfdi fljód, einglum tvim gaf ad gætur; vard hún nú hrædd og vidleit þá, vaktarann gardsins hugdist sjá; hann spyr strax: hvad hún grætur? Hún kvad: helzt þad, minn herra þýdur, hjartans blídur, hér finnst eigi, efni sorgar eg þad segi.

10. Hafir þú borid hann burt med þér, bid eg þú, herra, segir mér, svo eg hann þángad sæki. Madurinn svarar: María; meistari, sagdi hún aptur þá, ei leyfdi á

sér tæki; øll hryggd og styggd, snýst í gledi, skjótt þad skedi, er Kristum kenndi, heim til postula hana sendi.

11. Hún kom strax og þeim kunngjorde, Kristur af dauda risinn sé, atburdi alla sagdi; hinar konurnar hermdu med, þær hefdu líka Jesúm séd, lífs og í ljúfu bragdi. Þetta, rétta, villu héldu, hug sinn hrelldu, herrans sveinar, sjónhverfingar þad søgdu einar.

12. Til Emaus geingu einir tveir, um herrans pínu tala þeir, þad skedi á þessum degi; en svo til bar, sam segi' eg frá, sjálfur Jesús nálgadist þá, þó ad hann þekktu eigi. Hann spyr, hugkvr: hvada hjalid, hryggdar talid hafid, brædur? Kleófas annsar med klokkri rædu:

13. Ertu einn svo ókenndur mann, í Jerúsalem, ad gjorning þann, sem er fyri skømmu skedur, veiztu ekki? En hann spyr ad; honum Kleófas sagdi þad: Jesús, sem oss var medur, hæstur, ædstur af spádóms ordum og gæzku-gjørdum fyri gudi og mønnum, á krossi deyddur, þad sjálfir sønnum.

14. En nú í morgun árla víst, ádur en fékk af degi lýst, kvinnur frá oss útgeingu, lifanda søgdust líta hann, líklegt þad eingum virdast kann, felmt af því allir feingu. Heimska, gleymska, kvad þá báda, kóngur dáda, kenndi sídan: ad Kristur svo hefdi hlotid ad lída.

15. Alla ritning útleggja réd, opnadi þeirra hugskot med, skriptina gløggt svo skilja. Kauptúnid allir nálgast nú, nær því endud var leidin sú, gánga lézt leingra vilja. Beiddu, neyddu, Krist ad bída, kvádu lída á kvøldid næsta, inn med þeim geingur mildin hæsta.

16. Settist til bords og braudid þar, blessadi, sem hans sídur var, og sídan ad þeim rétti. Bádir í senn hann þekktu þá, þeirra sjónum hvarf burtu frá; harmi úr huga létti, hradir, gladir, postulum hinum, herrans vinum, hér frá søgdu, eingan trúnad þeir á þad løgdu.

17. A sømu stund þad svo til bar, siálfur Jesús var kominn þar, og mitt í midid stendur, þeim óskar fridar þessu næst,

þá var dyrunum aptur læst, sjá lét á sínar hendur. En þeir, því meir, urdu fegnir, óttaslegnir og því trúa, grát rédi øllum í gledi snúa.

18. Ekki var Tómas þá med þeim, en þegar seinna hann kom heim, þeir søgdu allt hid sanna; aldrei trúi eg, hann ansa réd, utan nagla-førin séd, fái med fingri kanna: lidu, bidu, átta dagar, dýrd svo hagar, drottinn sætur, ad luktum dyrum, kom mildur, mætur.

19. Hjá þeim stód herrann hýr í mid, hér næst Tómas svo ræddi vid, og vill hann verdi gladur: í nagla-førin lát fingur þinn, fljótt legg mér hønd í sídu inn, vert ekki vantrúadur. Drottinn, gud minn, sagdi dyggur, trúartryggur, Tvíburinn fridur, aptur Jesús þá ansar blídur:

20. Sannlega, Tómas, trúdir þú, tilsýnd mín þessu olli nú, og eg enn framar segi: sæll er sá, hver mig sér ei hér, samt þó af hjarta treystir mér, huggun svo hljóta megi. Fleiri, meiri, jardteikn hrein fyri

sinum sveinum sidar gerdi, øll þó ad greind hér ekki verdi.

21. Vid Genezarets vatnid brátt, voru þeir þá ad fiskidrátt, enn sig opinberadi: Pétur adspurdur þrisvar þar, því játadi, sem vonlegt var, ad hann Jesúm elskadi. Býdur, þýdur, lifsins braudi sina saudi, Simon fæddi; um hans dauda og útfør ræddi.

22. Fjørutíu daga drottinn réd, dveljast hér lærisveinum med, eptir upprisu dýra, til himna sidan hédan sté, hjá hønd fødurs almáttugri, situr vor hjálpin hýra. Amen, amen, allar tidir lofi lýdir lausnarann góda, honum skal jafnan heidurinn bjóda.

---

# Annar parturinn
innihelldur nokkra
gudrækilega og andríka sálma.

---

## Fyrsti flokkur,
sem hefir í sér
tvo nýársfálma, kvøld og morgun=loffaungva
og einn sjóferda sálm

---

### Nýársfálmur, kvedinn 1652.
Lagid: Lausnarinn Jesús lýdinn kunni.

Arid hýra nú hid nýa, nádar gódur sendi landi voru gud. Þrautir láti frá oss flýa, fargi sorgum, endi grand og eydi naud. Alla fylli gledi=gædum, gæzka' og miskun drottins blíd, í fastri ást og fridi' af hædum, skødugir stædum, oss hann blessi ár og síd.

2. Jesú prísad nafn og nefni, nýtt ár þetta komid heimi vígi' er bezt, styrki verk og stofnud efni, stydji, grædi, aunna geymi

mildin mest, barn umskorna, dýrum dreyra, dreysi yfir hjörtum mædd, syndagrand og sárið fleira, sjær að keyra, virðist dýrðin gæzku gædd.

3. Nýtt ár þetta gleðilegt greiddi, guð á hæðum vorum kæra kennidóm', sauði fæði, lýðinn leiði, að lífi' í hófi, gjöri' og læri verkin fróm, hjörðin verði hlýðug ráðum, hollum öllum þeirra mest; vari slugs að friðum dáðum, frið, og náðum, út svo rætist vonzkan vest.

4. Yfir-ljúfa-menn á minnist, mildivaldur drottinn, máttar herra hár, síðaprúðir sannleik kynnist, syninum þjóni, létti þrátt og bræðin sár, öll í stilling lögin lægi, ljúfir, gæfir, fróma við, lasta sízt þó vegi vægi, hneigi hagi, að góðir lýðir finni frið.

5. Raunir hjóna mjúkust mýki, miskun ferska græðarans lýða fyrr og síð, þolgeð helgað vaki; víki, vélið, bölið, neyðin, kvíði, hverfi stríð; börnin einnig blíður náði, og blessun vissa láti fá, faðirinn dáða' í friðar ráði, leiði á láði, með lífi og gæfu stóra' og smá.

6. Ydur gledi-árid hýra, ollum heill-um gefi vafid Jesús kær; menn og kvinn-ur klára, skíra, Kristi ást þér ljúfa hafid firr og nær, undir hendi hvílid sælir, heilla fullri drottins hér; eingan ángurs kulid kælir, þann af henni hulinn er.

7. Oss nú blessi grædarinn gódur, og gáfur ljúfar sínar hreinar einnig med, lád-id, lodur gædi gródur, glatt sé lopt, ei píni neinar plágur féd, neytum ætid litillátir, lofid gefum drottins nád, í gudi blidum kæt-umst kátir, mætast mát er, holl þau allir reyni rád.

8. Kasti vestu kostum lasta, Kristur bezt-ur, hæstur, mestur, fólki frá: víst svo traust-id festum fasta, fyrst og sízt þeim glæsta gesti ætid á; ást þýdasta brjóst ei bresti, bist-ur þjóstur horfinn sé, geistum lasta-gusti fresti, lósta-lestir, flestir næsta falli' í hlé.

9. Unni sannur oss og blessi, ollum heillum fylli sæll emanúel. Í kvida, neyd og krossi hressi, þá kvilla-fullum, vill ó-dæll hér vinna vél; svinnir menn og mynd-ug kvendi, máttugan drottinn lofid titt, hon-

einum oss afhendi, amen, sendi, ydur sús árid blitt.

### Annar nýárssálmur.

Lagid: Þøkk sé þér góð gjord.

Árid nýtt nú á, i nafni Jesú sæta, byrjast blitt; þú þá, þess vel skyldir gæta, segjast vitt sú má, sælu fregnin mæta, sem bøl kann bæta.

2. Gud og mann módir, mey i heiminn fæddi, vorn blídan bródur, sem bezt øll meinin græddi, heimsins hann þjódir, helgri blessun gæddi, þó ádur eymd mæddi.

3. Fólki frid breinan, fékk af dýrdar mætti, og gud vid einan allt mannkynid sætti, sælu sid beinan, sýndi' og hjartad kætti, brot synda bætti.

4. Jesús hann heitir, hjálp og frelsan lýda, sælu sann veitir, og sviptir øllum ...a, um løgmáls bann breytir, blessun ...r frida, med miskun blída.

5. Nafn þad sætt sanna, sælu' og gledi ...ir, hormum hættanna, haglega fortærir,

alla ætt manna, endurlífgar, nærir, sorg þá ei særir.

6. Arid nýtt nafn þitt, nádar herrann gódi, gefi' oss blitt, gagn sitt, i glodum fridi bjódi, nákvæmt, þýtt, vid naud kvitt, svo notkist manni' og skjódi, lán og lifs gródi.

7. Himin, lád, haf, flód, hverja skepnu' og eina, foldar sád, fjársjód ag frjóvgun landsins hreina, blessi nád guds gód og græding veitti beina, án móds og meina.

8. Kirkju stétt kæra, kennimenn i landi, lát oss rétt læra, lifnad sinn hver vandi, svo uppsett skæra, sannleiks skín ljómandi, stillt jafnan standi.

9. Skikkun lands-laga, lýds og stjórn-ar-ráda, yfirmanns aga, til ædstu heilla dáda, virdist hans haga, hondin líknarbráda, er einn allt má náda.

10. Hjónin, hjú, born blíd, bæi' og lýd um grundir, hond Jesú fræg, fríd, fridi' á allar lundir; vor sé trú vernd þýd, vængj-um drottins undir, lifs lángar stundir.

11. I háska' og hryggd kvoldum, herr-ann Jesús vægi, i ótta' og blygd oldum,

ástin drottins hægi, í strídi' og styggd dvöld-
um, styrk veiti svo nægi, og allt vel lagi.

12. Vid hrekkja bád-syndum, hlíf' oss, Jesú blídi, frá huga brád-blindum, brædra heipt og nídi, glæpa grá-lyndum, gudleys-íngja lýdi, róg, ráni, strídi.

13. Himins hnoss snjalla, helgast meyar sædi, oss geymi alla, frá óvina vélrædi. Kunni á kross falla, svo kreinkja hjartad nædi, guds nád þad grædi.

## Morgunsálmur.

Lagid: Einn gud skapari allra sá.

Á morgna þegar árla uppstá, eins á kvöldin, þá hvílast á, gef eg mitt líf og líka önd, ljúfi Jesú, í þína hönd.

2. Sálin hvílist og huggast mín, herra Jesú í benjum þín; bid eg: saklausa blódid þitt, blessi og helgi lífid mitt.

3. Kristi, sem þoldir kvöl og pín, keyptir mér frid med blódi þín, í vöku' og svefni vert mér hjá, vernda mig öllum háska frá.

4. Guds eingla skari skýli mér, svo skadi mig ekki djöflarner, í mínum krossi' og medlæte, minn drottinn Jesú hjá mér sé.

5. Hvort heldur lifi hér eda dey, hjartad mitt vid því kvídir ei, gladur því mína gef eg önd, guð sannleiksins, í þína hönd.

## Kvøldsálmur.

Lagid: Nú hefst nóttin og hylur dag.

Líknsami guð og herra hár, hvers vald og makt um eilífd stár, vér bidjum í Jesú nafni nú, nádar heyrn þinni til vor snú.

2. Ljósid dagsins enn dregst oss frá, dimmu náttmyrkri yfir brá, líkaminn hvíldar leita ser, léttir þjáningar svefninn er.

3. Þakkargjørd blída børn þín nú, bjóda þér øll med sannri trú, þókknist þér, fadir, fórn sú víst, fyri vorn herra Jesúm Krist.

4. Lof sé þér, guð, fyri lidinn dag líknin þín góð vorn auman hag, verndad hefir frá hryggd og neyd, háskasemd lífs og bráðum deyd.

5. Forlát þú oss nú fadir kær, fjølda synda, sem gjørdum vær, leynd og opinber afbrot vor, afplàni nú þín gæzkan stór.

6. Ervidi vort og vinnulag, vér sem nú

höfum gjört í dag, eptir sérhvers manns embætte, í þinu nafni blessad sé.

7. Gef oss nú, drottinn, góda nótt, geym og vernda frá kvöl og sótt, frá brádum dauda' og beiskri pín, bevari' oss alla nádin þín.

8. Freistingum djöfuls frá oss snú, forinjur vondar burtrek þú, óværdar drauma öngir þær, aldrei lát þú oss koma nær.

9. Lát þú oss dagsins ljómann hinn, líta ad morgni, drottinn minn, svo med fögnudi þjónum þér; þess nú af hjarta óskum vér.

10. Góz, heidur, lífid, æru' og önd, ó drottinn gud, í þína hönd, befölum vér med traustri trú, til vor nád þinni jafnan snú.

11. Guds födurs mildi, gæzka' og nád, guds sonar Jesú hjálpar rád, guds heilags anda hlífdin traust, hjá oss stadnæmist endalaust.

12. Heilög guds þrenning hlífi' oss nú, og haldi fast í réttri trú, ad hljótum sídan himna vist, hjálparann fyri Jesúm Krist.

13. Amen, þess allir óskum vér, amen, vor drottinn, lof sé þér; amen, sé þad, sem eg nú bad, amen, Jesús bænheyri þad.

## Annar morgunsálmur.

Lagid: Mikilli farsæld mætir sá.

Lofi þig, drottinn, himininn hár, og heilög eingla sveit, allar þjódir um allar krár, alstadar lands um reit; því sannleikann þinn og miskun mest, mildi og tignin klár, yfir oss öllum er stadfest, eilífa tíd og ár. Svo er og líka, sála mín, sönn og fullkomin skylda þín, lof drottins bædi hátt og hljótt, á hverri stund ad tjá; aldrei lát þér þad gleymast gott, gefins sem lét þig fá, hann hefir upp á nýtt í nótt, naudum þér bjargad frá.

2. Lofadur sértu, lifandi gud, fyri lidna næturstund, og þad veröldin uppljómud, er nú af dagsins fund; sól nú í heidi skæru skír, skínid sitt veitir hlýtt, fuglar loptsins, fiskar og dýr, fagna þeim geisla blítt; skógtrén, grösin og liljur lands, lifna og gledjast víst til sanns; þetta til dýrdar, drottinn, þér, daglega þjónar allt, æ hvad skyldara mun þá mér, ad mikla þitt nafn ávallt, guds ad líking, sem gjördur er, og gefid lífid snjallt.

3. Lof, heidur þér og þakkargjörd, þrenníngin edla blíd, viljugur skal eg vanda' á jörd, varandi lífs um tíd; þú hefir jafnan hjálp mér veitt, úr háska' og daudans pín, frá myrkrunum til ljóssins leitt: lofud sé gæzkan þín. Óvina minna afl og slægd, afmád hefir þín guddóms frægd, en þótt þeir byggi efnid vant, med allri svika þrá, ad mér þú, drottinn gættir grant, grimmd þeirra bægdir frá, rángferdugra sem rádum kannt, raska, svo hvergi ná.

4. Sem mig í nótt fyrir líkn og lid, lézt njóta máttar þíns, eins nú í dag um nád eg bid, í nafni frelsara míns; hindra þú umsát andskotans, sem elskar lygi' og mord, svo verdi sízt ad vilja hans, verk mín, þánkar né ord. Gefdu mér, drottinn, hjartad hreint, hugsa og stunda ljóst og leynt, lagabod þín, sem lézt oss fá, og lífsins braut eg skil; í dag og hvern dag hédan í frá, halda þau gjarnan vil, því Davíd segir sæla þá, sem þar hafa lysting til.

5. Blessa þú, gud, mitt kvinnu ker, og kæru börn á lád, blessadu allt hvad hefi' eg

hér, hlotid af þinni náð; blessa virztu minn búskaps hag, byrgdir og matar-faung, blessa útvegi' og vinnulag, svo verdi' ei hegdan raung; blessunar ædsti brunnurinn, blessadu mig i sérhvert sinn, sé eg á ferd um sjó eda jørd, sit, geing edur kyrr stend, hønd þin yfir mér haldi vørd, háska øllum frávend, gef svo med þýdri þakkargjørd, þin náð sé vidurkennd.

6. J forsjón þina og fødurhønd, fel eg nú, drottinn, hér, likama minn med lifi' og ønd, lán allt og heilsukjør; mitt svo eg akti starf og stétt, stjórnadu minni lund, hér med einnig mig haldi rétt, á hryggdar og gledistund. Kristnihald mitt, kærleik' og trú, med krapti þinum, ó Jesú, auka jafnan og efla virzt, upp á þad sál min fróm, dýrdarleg fái fyri þér birzt, þá ferdu ad halda dóm; kom, herra Jesú, kom, sem fyrst, klárt gjør allt synda gróm.

7. Daudans þegar eg nálgast nótt, nádugur vert mér hjá, med bærilegri banasótt, benda virztu mér þá; i fadmi sælum ad sofna þin, sæti fadir, eg kýs, óttalaus er þá ønd-

in mín, og eilíf gledi vís; sídan í lambsins ljóma klár, lofi hún þig um eilíf ár; þú, sem ad allt med ordi ber, einn gud og þrenning há, samhuga allir sýngjum þér, sigurvers himnum á; valdid þitt, dýrd og æran er, amen, halelújá.

Annar Kvøldsálmur.

Lagid: O gud, sem geymir Israel.

O Jesú, þér sé þøkk og lof, fyrir þína ást og nádargjøf, vel hefir þú minn veikan hag, verndad og geymt um þennan dag.

2. Slísni eingin mig henti hér, hlífd drottins míns þad veitti mér, satan fékk ei ad orka neins, sem ønd' og lífi var til meins.

3. Jeg vil fyrir þad, Jesú kær, játa þér vegsemd fjær og nær, af hjartans munni, hug' og raust; haldist þín virding endalaust.

4. Eilífan bid eg almátt þinn, ástkæri Jesú, herra minn, fyrirgef øll mín afbrot ljót, í dag, sem framdi' eg þér á mót.

5. Dagsvinnan mín, sem drýgda eg hér, drottinn minn gódur, þókknist þér; efli þín

blessan allt mitt ráð, auk mér von, trú og kærleiks dáð.

6. Geymdu mig, drottinn guð, í nótt, frá grimmum voða, kvøl og sótt, svo óvin gjøri mér eingin grønd, yfir mér sé þín hjálparhønd.

7. Lukkuna, heilsu, lán og féð, lif og sálina einninn með, umsjón þinni eg allt það gef, óhræddur síðan ligg og sef.

8. Í drottins nafni eg hvílist hér, hafðu, o Jesú, gát á mér, eg fel mig þinni elsku enn, og alla þína kristna menn.

9. Lof sé føðurnum lesið og tjáð, lof sé vors herra Jesú náð, lof helgum anda allan tíð, amen, lof sé þér þrenning blíð.

---

## Dagleg andvarpan.

Lagið: Hver, sem að reisir hæga byggð.

Heilla ljúfasti herra minn, hjartans útvaldra yndi, uppveki mig nú andinn þinn, endurnæring svo fyndi; eg er manneskjan alsaurug, afpláná það lifandi guð, gef mér glaðværðar lyndi.

2. Ásetning minn og iðjulag, eg þeinkti

ad lagfæra, þér til dýrdar ad þjóna í dag, það veiztu nádin skæra; en hverninn hefi' eg aum mannkind, áreitad þig med margri synd, það virztu ad lagfæra.

3. Lífdaga minna lýtin øll, lækna þú, drottinn blídi, og mig hvítfága eins og mjøll, eingu svo meini kvídi; æ, mig ángrar af allri rót, ad eg gjørdi þér syndga mót, heilla fadirinn frídi.

4. Lángar mig nú af lífi og sál', lausn hjá þér, drottinn, finna; þér er nú, fadir, meir en mál, meinanna bót á vinna: sætasti brunnur svølunar, signad herbergi vellystar, lát mig þér lofgjørd inna.

5. Grædi nú øll mín synda sár, signadar Jesú undir, himneska fødurs høndin klár, hún sé yfir og undir; ókvidin er þá øndin mín, í blídum nádar fadmi þín, lídi svo lífsins stundir.

6. Réttlætis fagur kvístur klár, konúngur dýrdar sæti, einglafegurd um eilíf ár, útvaldra sálar kæti, allra trúadra elska' og von, er Jesús guds og Maríu son; gef þess eg jafnan gæti.

7. Innræt þú, drottinn, ordid þitt, í mitt hjarta og sinni, þad sé lífdaga ljósid mitt, lifnad svo bæta kynni; eptir því lát minn greidast gáng, í gæzku þinnar og nádar fáng, þar svo þér þakkir inni.

8. Miskunar þinnar mjúku nád, mikla eg æfi mína, mildasti Jesú, meyar sád, minnztu á barnkind þína; fadma mig ad þér, fadir minn, fyrir eingetinn soninn þinn, lát ekki lídsemd dvína.

9. Set eg nú allt mitt traust og trú, til þín, minn Jesú gódi, ad mig af ástsemd elskir þú, og á dreifir þínu blódi; æ medan varir æfin mín, útbreida vil eg lofgjörd þín, bædi hátt og í hljódi.

10. Andvarpan þessa, ædsti gud, álittu' í miskun þinni, hjástod veittu í hverri naud, hygg ad grátbeidni minni; láttu mig ætíd lifa þér, lika deya, þá burtu fer. Lof þitt aldregi linni.

## Sióferdasálmur.

Lagid: Náttúran öll og edli manns.

Drottinn líknsamur herra hreinn, hjálpar-

inn allra manna, þú, sem ad rædur öllu einn, ástsemdar mildin sanna, bænheyr þú mig, þess beidi' eg þig, í blessudu Jesú nafni, med ljúfri náđ og legg á ráð, um lífs og sálar efni.

2. Þín náð þad hefir svo tilsett, ad sérhver skyldi læra, embætti sitt ad idka rétt, og med handbjørg sig næra, um land og sjó, en lidsemd þó, lofadir þeim ad veita, sem treysta þér og sidan sér, sinnar atvinnu leita.

3. Nú vil eg eptir ordi því, í trausti nádar þinnar, á hafsins bylgjur fara frí, fædu leitandi minnar; sjádu mig nú, sæti Jesú, svo einginn háski grandi, til og frá hér hjálpa þú mér, hættulaust aptur ad landi.

4. Og sem þú gjørdir ádur fyrr', óstyrkum lærisveinum, þegar stormvindur þegi kyrr, þagnadi fyrir þér einum, svo álit mig, nær yfir sig, aldan og vedrid bleika, hasta þar á, en hugga þá hjartad mitt trúarveika.

5. Vardveittu mig og veg minn greid, vernd þín yfir mér standi, frá beiskri sorg og brádum deyd, bædi á sjó og landi; Jesús minn trúr, eymd allri úr, einn kanntu mig

ad leysa, vertu mér næst, þá hér sem hæst, hafsins bylgjurnar geysa.

6. Stóran brim-sjó og sterkan vind, stødvi þín mildin sæla, illra stórfiska ógna mynd, ei lát mig kunna fæla; vængja skjól þitt, fyri vardhald mitt, vil eg mér gjarna kjósa, svo megi' eg frí af fári því, frelsun þinni bezt hrósa.

7. Því vil eg leystur lofa þig, lífsins um tídir mínar, þar heiløg guds børn halda sig, heidrandi nádir þínar; þakk-offur eitt, í veikleik' veitt, virztu af mér ad þiggja, eilíf nád þín, á armi sín, unni mér jafnan liggja.

8. Jeg geing til skips í Jesú nafn', Jesús minn hjá mér blífi, helgra guds eingla heilagt safn, hrædslu og sorg burt drífi, mig fel og þá, sem mér eru hjá, míns Jesú sjálfs í hendur; verum til frids, væntandi lids, vernd hans yfir oss stendur.

9. Í guds nafni og ótta enn, eptir hans nádar ordi, veidarfærunum vil eg senn, varpa frá skipsins bordi; þetta mitt verk, miskunin merk, minn herra Jesús blessi; veiti

hann mér, hvad vild hans-er, von min og bón-er þessi.

10. Jesús oss veri øllum hjá, auga hans til vor sjái; háska og ógnum hrindi frá, svo hætta' ei granda nái; vort hjartans hús, helgi Jesús, hann oss i fridi leidi; óskum þess nú, allir med trú; amen, sé það eg beidi.

---

## Annar flokkur

innihelдur

heilræda- vidvørunar- og bænarsálma, kristilegu liferni vidvikjandi.

---

### Gyllini A B C

af þýzku útlagt.

Lagid: Nú kom heidinna hjálparrád.

A einn guд set þú allt þitt traust, adstod mannlegri trúir laust; fast standa drottins fyrirheit, finnst varla tryggd um veraldar-reit.

2. Bezt þinnar æru geym og gæt, gersemi sú er harla mæt, ef hún þér sleppur eitt sinn frá, eingin er von til henni ad ná.

3. Christnum sómir ei saurugt hjal, sérhver sinn munn vel geyma skal, með þögn sig einginn fortalað fékk, fjölyrtum jafnan illa gekk.

4. Deil aldrei við þinn yfirmenn, elska skaltu og virða hann, þann minni-háttar hæð þú sizt, hefnd fær drambsemi jafnan víst.

5. Ef þú nægð af auðæfum átt, eingan veginn þig stæra mátt; þeink: að lán drottins er það allt, af því reikningsskap standa skalt.

6. Frómleika, dáð og dyggðir með, dýrara halt en gull og féð. Þá heimsins auðlegð horfin er, hvert sinna gott mannorð fylgir þér.

7. Gef ölmusu, ef áttu auð, og aumka þann, sem líður nauð; guð, í hvers höndum heill þín er, hann mun líkt aptur gjalda þér.

8. Hafi þér einn til góða gert, góðminnugur þess jafnan vert; þakkarlaus velgjörð (það er reynt), þúngt fellur manni ljóst og leynt.

9. Iðinn vertu á úngdóms tíð, erviði

lær, þar kemur um síd, uppskera mun þad ellin kyr, sem æskan nidur sádi fyr.

10. Kært þó einn láti í eyru þér, of mjøg honum ei trúa ber; munnurinn stundum mælir dátt, meinar þó (kann ske) hjartad flátt.

11. Lukkan hvort heldur mót' eda med, minnztu ad hafa stødugt ged, sjaldan er upphaf ending' líkt, opt gefur raunin vitni um slíkt.

12. Med reidum huga høndla' ei neitt, hvad til góds enda viltu leitt; margur í brædi verk þad vann, sem vard þó mest ad ídrast hann.

13. Nem þú og lær, hvad nytsamt er, nær einhver gott vill kenna þér; hirda fáir um heimskan mann, hinn fær virding', sem meira kann.

14. Ókennt málefni aldrei mátt, úrskurda fljótt né dæma brátt, klagandans heyrdu søgn um sinn, sídan gæt ad, hvad talar hinn.

15. Prakt og hofmód þér hrind þú frá, hefnd færdi mørgum løstur sá, lítillátan

landsmanna sid, lát þér nægjast ad blifa vid.

16. Qvilludum hug, sem sturlar styggd stærri skaltu ei auka hrÿggd, goldid má verda aptur eins, sem ødrum gjørir þrátt til meins.

17. Raupa sem sízt af sjálfum þér, þó sýnist nokkud gjørt sem ber; eigid lof jafnan lyktar vest, lífernid frómt sér hrósar bezt.

18. Sjá þig vel um, þvi verøld er flá, vondum selskap þig sneidir hjá; gudhræddum halt þig gjarnan ad, gott nafn þér víst útvegar þad.

19. Tem þig ad elska æru' og spekt, þó allir þig .: lofi frekt. Svo øllum lyndi, einginn mann, ord sín og gjørdir stilla kann.

20. Upp á heims aud og allt hvad er, aldrei þig reid, þad hverfur þér; sá má þvi haldast hygginn bezt, sem himnesk gædi stundar mest.

21. Ven þig aldrei med agg og róg, ad samandraga fjárins plóg; þad ferst med sorg, sem fæst med synd, vid fridsamt brand þér uni og lynd.

22. Xerxes konúngur fordum frekt,

forlét sig upp á vald og mekt, fékk þó minkun og sorg til sanns; sérhver varist þó dæmin hans.

23. Yfir allt fram þú óttist gud, elska og vird hans heilög bod; ödrum rádhollur einninn sért, eins sem þú vilt ad þér sé gert.

24. Zebaot gud öll veit þín verk, vert því lastvar, hans makt er sterk, fljótara stillist hótud hefnd, en hin, sem er med framkvæmd efnd.

25. Þig lær sjálfan ad þekkja rétt, þreyngst' ei heldur í neina stétt; hvad þú áformar ad því gá, endirinn hvernig verda má.

26. Ætíd minnzt' á þinn daudadag, dóm sídastan og sálarhag; bid jafnan gud ad gefa þér nád, gód og heilnæm ad stunda rád.

---

### Hvad vera eigi athæfi kristins manns.

Lagid: Skaparinn stjarna, herra hreinn.

Ef þú vilt góda fridsemd fá, fjölmælgi alla varast þá, glatt hjarta yfir gódu býr, gjarnan vert jafnan lyndishýr.

2. Í trúnni geym stillt og stödugt ged, stunda þar hreinan kærleik med, efalaus sé bænin yfirbót, undandráttarlaus, klár og fljót.

3. Idrandi fyrir þín afbrot sért, ör vid fátæka jafnan vert, í gódum verkum idinn bezt, illt ad fordast viljugur mest.

4. Fúslega gódri hirting hlýd, hörmúng med þolinmædi líd, í látædi þínu ljúfleik sýn, líka sé hæversk skikkan þín.

5. Mjúkleik í kenníng' merkja lát, mæl vid adra med spekt og gát, vitna þad eina satt reynt sé, um sérhvad dæm med réttvísi.

6. Því fáordari finnstu hér, fjölmennid, sem þú meira sér, því heilrádari þig hverjum tjá, honum sem meira liggur á.

## Heilrædasálmur.

Med sínu lagi.

Viljir þú gedjast gudi vel, og gódum mönnum hér, hreintrúad hafdu hjartans þel, og heidra hans nafn, sem ber; ord drottins lær med allri gát, idka mest heita bæn, þakkargjörd fagra fylgja lát, fórn sú er einka væn, hugsun vondri þér hrittu frá, henni

gef aldrei rúm þér hjá, illgresis fræid upp sé rætt, ádur en frjófgun nær, ske má, þad sé vid háska hætt, ef hrekkja-rótin græt.

2. Ædri menn þér i heidri halt, hvern eptir sinni stétt, ljúflyndi vid þinn lika skalt, láta i frammi rétt; gleztú aldrei vid gamlan mann, gráhærdum virding ber, forsmá ei heldur fátækan, sem frómur og meinlaus er; módga ei þann, sem mædir styggd, medaumkun sín þeim lidur hryggd, djarflega ekki ødrum lá, ávirding hans né brest, þú veizt ei hvad þig henda má, haf gát á þér sem bezt.

3. Fórdastu þá, sem fara med smán, falsyrdin, hád og spé; lánleysi, slis og lukku rán, laun þeirra trú' eg sé, hótfindnin ill er eingum þekk, athuga jafnan þad, ske má þú hafir ský edur flekk, ef skyldi þar greuslast ad; hlátur og keskni hæfir sízt, heimskunnar merki þad er víst, klám, nid og hróp þú hata mest, hugsa um málshátt þann: frómlegum sidum samtal vest, saunlega spilla kann.

### Um góda samvizku.

Lagid: Dagur i austri øllum.

Hvad verdur fegra fundid, en fridur og

rósamt geð, ángur úr huga hrundið, hjartað gladvært þar með? innbyrðis elskan hreina, með æru' í hverjum stað, heims eptirlætið eina, eflaust dæmi eg það.

2. Gladur vilda' eg þú værir, og vondu hjá þig sneið, margt þó til böls þér bæri, bakmálug túngan leið; ef þinnar æru gætir, aldrei þú kvíða þarft, síðar þá sönnu mætir, sjálf lygin dofnar snar.

3. Lán heims ei lát þig villa, lukkunni spart þú tak, antigna eingum illa, allra sízt þó á bak; opt einn að öðrum finnur, það iðkar hann sjálfur mest; hver má svo hittast svinnur, að hafi' ei nokkurn brest?

4. Heilbrigði, hjartans kæti, hér með samvizkan góð, ástvina eptirlæti, fyri utan trega og móð, frómt líf og farsæll dauði, fylgjast með réttu að, af hverjum heimsins auði, helzt vilda' eg kjósa það.

### Um lukkunnar óstöðugleika.

Lagið: Hvar mundi vera hjartað mitt.

Allt heimsins glisið, fordild frið, fegurðar prjál og skraut, fallvalt meinslisið fyrr

og sid, flestøllum reynast þlaut, allt eins og fis í hvassri hríd, hverfur snarlega' á braut lukkunnar blisid litla tíd, logandi óvart þraut.

2. Blómleg æskunnar edlis art, sem aldins jurtir beint, snemma upprunnar blika bjart, burtvisna' ad kvøldi seint; þeir gledi brunnar þorna snart; þad hefi' eg séd og reynt, vatns-rásir grunnar hørfa hratt, hverfur svo tíminn leynt.

3. Líkams heilbrigdin hrósar sér, haldin af øllum kær, hennar þó tryggdin afslepp er, óvissum tíma nær, sóttar andstyggdin brátt ad ber, búksterkum nidurslær, bleik dauda sigdin sárbeitt sker, sólføgur blómstrin skær.

4. Holdsins fridleikur, fegurd klár, og fraktin líkamans, sem limid eikur laufgad stár, lífid gledur til sanns, allt eins og reykur øll forgár, ásýndin hvarma-ranns, þar liggur bleikur, blódlaus nár, burt er fordildin hans.

5. Mannsins líf hraust, er allra innst, í ædum hjartans býr, mjøg þó ótraust og fallvalt finnst, fljótlega um sér snýr, vidstødulaust þá varir minnst, sem vindur í burtu

flýr, ad láni hlauzt, því laungum vinnst litla stund æfin rýr.

6. Heims audur sýnist holdsins art, harla fagur til sanns, medan vidklinist kroppinn skart, kætist ged fávíss manns, optlega týnist yfrid snart, ýmist til sjós eda lands, bersnøggur pínist hugur hart, hvar er þá geingid hans?

7. Margur hver reisti' um frónid fjær, fékk þess ei verid án; annar med hreysti fjárplóg fær, fer hinn med vél og rán, eitt el, einn neisti, ein bylgja', einn blær, burtsneiddi allt þad lán, en sá því treysti', er eingu nær, utan því meiri smán.

8. Verøldin blíd ad láni lér, lystugt gledinnar hnoss, ásýndum þýd á baki ber, beiskan hørmúngar kross. Lukkan dáfrída líkust er, vid limskan Júdas's koss, bezt væri í tíd ad sjá ad sér, svo hún ei blekkti oss.

9. Vøld, léni, makt og virdingar, vel margur sér dró ad, høfdingja dragt og skrúda skar, skrautlega útsnikkad, af skal þad lagt og ekki par, aktar daudinn um þad, frá

dýrdar ríkid inn; lát heim, hans seim og hold med bádum þeim, hafa sinn hátt og læti, herra minn Jesús sæti, mér stendur mildur hjá, mest þegar liggur á.

## Annar sálmur sømu meiníngar.

Lagid: Dagur í austri øllu.

Allt eins og blómstrid eina, uppvex á sléttri grund, fagurt med frjóvgun hreina, fyrst um dags morgun stund, á snøggu augabragdi, afskorid verdur fljótt, lit og blød nidur lagdi, líf mannlegt endar skjótt.

2. Svo hleypur æskan únga, óvissa daudans leid, sem aldur og ellin þúnga, allt rennur sama skeid. Innsigli eingir feingu, upp á lífs-stunda bid, en þann kost undirgeingu, allir ad skiljast vid.

3. Daudinn má svo med sanni, samlíkjast þykir mér, slíngum þeim sláttumanni, er slær allt hvad fyrir er, grøsin og jurtir grænar, glóandi blómstrid fritt; reir, stør, en rósir vænar, reiknar hann jafn-fánýtt.

4. Lífid manns hratt fram hleypur, hefir og einga bid, í daudans grimmar greipur,

grøfin tekur þar vid; allrar veraldar vegur-víkur ad sama púnkt, fetar þad fús sem tregur, hvort fellur létt eda þúngt.

5. Hvorki fyrir hefd né valdi, hopar daudinn eitt strik, fæst sízt med føgru gjaldi, frestur um augnablik; allt hann ad einu gildir, hvort illa líki' edur vel, bón ei né brædi mildir, hans beiska heiptar-þel.

6. Menn vada' í villu' og svíma, veit eínginn neitt um þad, hverninn, á hverjum tíma, eda hvar hann kemur ad. Einn vegur øllum greidir, inngáng í heimsins rann, marg-breyttar lízt mér leidir, liggi þó út þadan.

7. Afl daudans eins nam kreinkja, alla í verøld hér, skal eg þá þurfa ad þeinkja, hann þyrmi einum mér? Adams er edli runnid, í mitt náttúrlegt [illegible] hef' og þar til [illegible] mold.

8. Hvorki [illegible] líf eg fann; [illegible] teingd vid líkamann; í herrans [illegible] stendur, ad heimta sitt af mér. Daudinn má segjast sendur, ad sækja hvad skaparans er.

9. Nú vel, í herrans nafni, fyrst naud-

syn ber til slík; eg er ei þeirra jafni, sem jørdin geymir nú lík; hvenær sem kallid kemur, kaupir sig einginn frí; þar læt eg nótt, sem nemur, neitt skal ei kvída því.

10. Eg veit minn ljúfur lifir, lausnarinn himnum á, hann rædur øllu yfir, einn heitir Jesús sá, sigrarinn daudans sanni, sjálfur á krossi dó, og mér svo aumum manni, eilíft líf víst tilbjó.

11. Med sínum dauda' hann deyddi, daudann og sigur vann, makt hans og afli eyddi, ekkert mig skada kann; þó leggist lík í jørdu, lifir mín sála frí, hún mætir aldrei hørdu, himneskri sælu í.

12. Jesús er mér í minni, mig á hans vald eg gef, hvort eg er úti' eda inni, eins þá eg vaki' og sef, hann er mín hjálp og hreysti, hann er mitt rétta líf, honum af hjarta' eg treysti, hann mýkir daudans kíf.

13. Eg lifi' í Jesú nafni, í Jesú nafni' eg dey, þó heilsa' og líf mér hafni, hrædist eg daudann ei; daudi, eg óttast eigi, afl þitt né valdid gilt, í Kristi krapti' eg segi: kom þú sæll, þegar þú vilt.

## Um kristilega burtför.

Lagid: Kom andi heilagi.

Enn ber eg andar kvein, upp til guds hæda hann kann min margföld mein, mjúkast ad græda.

2. Andvarp mitt ekki hann, út frá sér rekur, hug gledur harmfullan, höndum vid tekur.

3. Mitt daglegt yndi er, á hann ad kvaka, eins á nótt sál min sér, sætleik hans vaka.

4. Er hún svo yfrid lyst, eytir þeim herra, sem veröld vökva þyrst, vid sumarþerra.

5. Rik girnd sú rennir opt, rétt ósedjandi, huganum hátt i lopt, hér þó eg standi.

6. Í munninn falla fljótt, fossarnir tára, innvortis er samt hljótt, andvarpid sára.

7. Kinnbeinin þar med þvæ, þau nokkud svída, gud sér hvad sárt eg sæ, sorgir vid strída.

8. Nær skal sú sálar girnd, södd fullkomlega, ad aldeilis út sé fyrnd, örin mins trega.

9. Ad sál og lika lif, lita þann nái, sem endar allt mitt kif, eptir eg þrái.

10. Nú vill þad hardla heitt, huga minn beygja, eg á þad eptir eitt, enn nú ad deya.

11. Uggur sá ángrar mig, eg hlýt ad styggja, drottinn, svo þráfalt þig, þenna heim byggja.

12. Væri afstadid stríd, stilltist sú hrædsla, fullkomin bættist blíd, bartskerans grædsla.

13. Jesú minn, leggdu lid, láttu mig trúa, þér, heitt eg þess nú bid, þar frá ei snúa.

14. Holdsveikin þrýtur þá, þinn sætleik geymi, útför vil feginn fá, frá þessum heimi.

15. Þín ord mitt lífga líf, líka þó deyi, þar vid óbilugt blif, bregdast þau eigi.

16. Því verdur þelid hraust, þó daudinn komi, lukkast mér lofad traust, líka' í guds dómi.

17. Eg veit ad Jesús minn, upp kann mig vekja, med holdi mín beinin, mun aptur þekja.

18. Med sama sjónar hvarm, sem hér nú væti, sé eg hann sviptur harm, í sigurkæti.

19. Af er þá ángistar, øll raun og mæda, hrekst eg ei hrumur þar, í hrørnun klæda.

20. Mína eg fundid fæ, fagnadar glada, sem blómgad sumarfræ, sætra laufblada.

21. Djøfull og dólgar hans, dýrd þá ei fella, sem hér í sorgardans, sífellt mig hrella.

22. Því vil eg friðarfús, frá hryggðar-
djúpi, afleggja holdsins hús, svo hyljist hjúpi.
23. Lamb guðs, sem líf mér fann, láttu
mig vera, sáttan við sérhvern mann, samt
þig, minn herra.
24. Gef þú mér góða menn, gröf mína
taka, og meðan anda enn, yfir mér vaka.
25. Guð, lát mig eingin orð, af munni
leiða, sem búa sálu morð, sælu mig sneiða.
26. Yfir allt annað hitt, um mér að hreppa
hold og blóð helgast þitt, huggun ei sleppa.
27. Jesú guðs sanni son, send mér til
handa, þá hæstu heilla von, heilagan anda.
28. Fyrir stríð strángast þitt, sterkasti drott-
inn, andlátið mjúkt gef mitt, mér sé bær sóttin.
29. Eingan lát ótta' af mér, afgeingn-
um standa, svæf þú mig sætt í þér, sjálf-
um til handa.
30. Meðtak þú mína önd, minn Jesú
Kristi, í þinni heilla hönd, hún sé og gisti.
31. Láttu, guð, þekkan þinn, þjón einhvern
vera, foringja fróman minn, fagran saung gera.
32. Sem liðið lík og gröf, ljúft sé að blessa,
og láti' á einga töf, orð guðs að messa.

33. Launa þú sjálfur svo, saung þann og lestur, drottinn, um tíma tvo, trúr hirdir beztur.

34. Hér med þig blídan bid, brunnur alls góda, send þú þeim sífelt lid, sem þar til stoda.

35. Odlist þeir eilíft gagn, audgist á foldu, sem bera sveita magn, ad sópa' á mig moldu.

36. Sofnadur sídan þá, sæll mun uppreistur, ervidi øllu frá, af gudi leystur.

37. Allt hvad minn gódi gud, gaf mér í heimi, einn taki aptur vid, annist og geymi.

38. Hann veri fadir fús, fødurleysingja, miskun og matarhús, minna veslinga.

39. Lýsi þeim lífs á braut, línkind á breidi, og svo úr allri þraut, um sídir leidi.

40. Ei læt þeim eptir mig, aud, gull né silfur, heldur, gud, helzt bid þig, hjálpa þeim sjálfur.

41. O minn gud, mín er þad, mjúk bæn og vonin, þann hópinn þér tak ad, þinn fyrir soninn.

42. Eins medan erum vær, øll hér á lífi, þín blessud nád sé nær, vid naudum hlífi.

43. Vort fátækt hafdu hús, í hendi þinni, drottinn gud fridarfús, frjóvga þad inni.

44. Þín orð þá bezta björg, brauð, hús og klæði, gefi þín gæzkan mörg, guð, þolinmæði.

45. Einn sértu, sanni guð, sem með oss vendi, að sækja allan auð, í þitt haglendi.

46. Drottinn minn harðla heitt, helzt þar um beiði, hætt svo ei saki neitt, sál héðan leiði.

47. Herra, mig heiman bú, í hendur þínar, leið mig í lífsins trú, um lífstíð mína.

48. Ei láttu synda síð, saurga mitt hjarta, svo megi sætt með frið, samvizkan skarta.

49. Hátt og djúpt heitum foss, hjartans útrenni, barn guðs, sem bar sinn kross, í brjósti' um mig kenni.

50. Mjög hætt er marga stund, minn hrellist hugur, gef náð af góðri lund, guð almáttugur.

51. Eg trúi á þig fast, almáttug vera, þann skjöld fyrir skeytið hvast, skal eg frambera.

52. Drottinn, eg þekki þig, þér því befala, öldúngis allan mig, án hjartans kala.

53. Særðu og grættu geð, guð, sem þér

lyndir, auðmjúk bæn min er með, minnst ei á syndir.

54. Eg á mig ekki hér, í veröldinni, drottinn, eg eign þín er, af miskun þinni.

55. Því veit eg, sérð þinn sauð, sjálfs þó hér arki, þinn þekkir allan auð, af eigin marki.

56. Ulfsins sjeðst ekki kverk, af sálu minni, þín höndin harðla sterk, hlífir hjörð sinni.

57. Hér beygi eg hjartans knè, hjálpar sár bæni, rétt sem ein ambátt sé, upp til guðs mæni.

58. yfirgef ekki mig í þinni bræði, gef fundið geti' eg þig, guð, mitt hjálpræði.

59. Frá einni eiktar stund, allt fram til hinnar, bið eg með ljúfri lund, lífs konu þinnar.

60. Gjörðu nú, guð minn, snart, að gráti minum, börðum reir bend ei hart, blóð-keyptum þinum.

61. Höfuð mitt seka sé, sem kjöltu móður, lagt í þitt líknar knè, lausnarinn góður.

62. Burt mér ei bljúgum hrind, boðuls í hendur, fætur þín faðmi bind, frelsarinn kenndur.

63. Ondin min sýgur svo, sár þinna rista, eins og brjóstbrunna tvo barnid ørþyrsta.
64. Mér geingur mergjar til, miskun út dregin, mitt ángur mýkja vil, mjøg hjartans feginn.
65. Þadan um eilíf ár aldrei burtvenda; drottinn, þinn heidur hár, haldist án enda.
66. Eja, þér, gódi gud, gøfgun sé framen um eilífd ár og síd, amen já, amen.

## Andláts sálmur,

sem skáldid kvad á sóttarsænginni.

Lagid: Sá frjáls vid løgmál fæddur er.

Herra Jesú, eg hrópa á þig, hjartans því kraptar dvína, bænheyr þú, drottinn mildur, mig, fyrir miskunsemina þína.
2. Bænheyr mig fyrir þín blódug sár og benjafossinn rauda, bænheyr mig nádar kóngur klár, og kenndu til minna nauda.
3. Bænheyr mig fyrir þinn trega og tár, og titrandi kvalanna pínu, bænheyr mig fyrir þitt sídusár, og svaladu hjarta mínu.
4. Ljúfur Jesú, eg leita þín, lát mér ad

hvarsi verda, ángrád er nokkud øndin min, ad vilja þrautir herda.

5. Láttu mig finna likn hjá þér, ljúfust-um edlabródur, húskrossi litlum hægdu' á mér; heyrdu þad, gud minn gódur.

6. Þó vil eg bikar þenna af, med þakk-látu hjarta drekka, súrt þó mér finnist súta-kaf, svaladu minum ekka.

7. Herra, gef mér i hjartans ged, hei-laga þolinmædi; umburdarlyndi einninn med og eilif sálargædi.

8. Kærleikans eld þú kveik i mér, kref eg þess gud af hjarta, i andlegum hjúskap æ med þér, ønd min svo nái' ad skarta.

9. Drottinn þú veizt minn þánka' og þel, og þørfina alla mina, þina i hønd eg þad allt fel, þyrstur i miskun þina.

10. Aldur minn þegar úti er, eymdum trúi' eg þá linni, fyrir blód þitt, Jesú, bjarga mér, á banasænginni minni.

11. Hressi mig þá þitt blessad blód, beint svo ad trúar stafni, heim eg þá réttu hjálpar slód, haldi i Jesú nafni.

12. Bænheyr mig himnesk blidan væn,

og blessadur edlabródir, gleym þú ei minni gjørdri bæn, gádu' hennar Jesú gódi.

13. Andláts þá stundu yfir mig slær, allt mál og megn vill dvína, heim til þín fadir hjartakær, hafdu sálina mína.

14. Hægan gef dauda og hédanfør, hvíld þar med holdi mínu, í upprisunni þau edlakjør, í augliti' ad gledjast þínu.

15. Láttu mitt hjarta segja med sér, og svoddan trú í því standa: herra Jesú miskuna mér, medtak þú svo minn anda.

16. Falli svo til eg missi mál, minn fyrir afgángstíma, í mitt hjarta, sinni og sál svoddan ord virztu ad líma.

17. Þá er eg hólpinn, þad er mín trú, þessa bón virzt mér veita, andliti þínu ad mér snú, eins sem eg þess nú leita.

18. Feginn vil eg, sem fljótast nú, frelsast úr daudans skordum, augliti þínu ad mér snú, eins og til Péturs fordum.

19. Sæti Jesú mig svipt'u pín, sálminn gjøri' eg svo enda, hrelldu svaladu hjarta mín, huggun virztu mér senda.

## Annar andláts sálmur,

sem skáldið orti síðast á sóttarsænginni.

Lagið: Skaparinn stjarna, herra hreinn.

Guð komi sjálfur nú með náð, nú sjái guð mitt efni' og ráð, nú er mér, Jesú, þörf á þér, þér hefi' eg treyst í heimi hér.

2. Eg hefi' aldrei í nokkri nauð, nauðstaddur beðið utan guð, guð hefir sjálfur gegnt mér þá, guð veri mér nú líka hjá.

3. Afvörðuð mín og mæld er stund, mitt líf stendur í þinni hönd, andlátið kemur eitt sinn að, einn veiztu, guð, nær skeður það.

4. Nú hefi' eg þar á nokkurn grun, nálægjast þessi stundin mun, holdið mitt er af harmi þreytt, hafa kraptarnir sér umbreytt.

5. Finn eg, að augum förlast sýn, falla tekur nú heyrnin mín, hendurnar hafa misst sitt magn, minn fótur vinnur ekkert gagn.

6. Líkaminn allur særður sótt, svitnar og dregur af mér þrótt, einnig þreyngist um andardrátt, eg vænti minnar hvíldar brátt.

7. Dofna varir og túngan treg, tala því ekki orka eg, hjartað svo margskyns mæða lýr, mannleg hjálp öll sér frá mér snýr.

8. Sárbeidi' eg gud af gódri lund: gef þú mér hæga daudastund, ofbjóda lát ei andláts deyd, aumka þig yfir mína neyd.

9. Vitnisburd þann frá eilífd átt, ad þú hjálpir á beztan hátt, þá endast megn og mannleg stod, miskuna þú mér, drottinn gud.

10. Láttu nú sannast lidid þitt, líttu á kvein og andvarp mitt, eg sárgrátbæni son guds, þig, syndirnar skyldu nú vid mig.

11. Utslegid bid eg allt þad sé, er eg þig, drottinn, módgade, óverdugum til góda ger, gud, sem optar, og hjálpa mér.

12. Fyrst þú hefir svo hingad til, haft stóra nád og kærleiksil, i frammi vid mig fallinn mann, frelsadu mig nú naudstaddan.

13. Þú hefir fyrri fyrir mig stritt, feingid mér sigurmerkid nýtt; Jesú minn, nú þín frægdin frid, fyrir mig vinni daudans strid.

14. Gef þú mér eina trausta trú, til þín, minn hjartans herra, nú, i gegnum daudans grimma hlid, gud láti komast mig med frid.

15. Sæktu minn gud, hvad sjálfs þins er, sálina þá, sem gafstu mér, skildu hana nú hægt vid hold, hvílast lát þad i jardar mold.

16. Hún verdur fegin hvíldar fund, hast hefir marga mædu stund, vosbúdarnótt og nauda flug, næsta barizt med veikan dug.

17. En þad hún hefir afborid, er sked fyrir hins hæsta lid, hann hefir sinn hinn sanna krapt, svo i þeim breyska rikan haft.

18. Opt hefir lúinn anda nært, ervidi hjartans stilling fært, úrrædi er eg eingin sá, i sinu skauti bar mig þá.

19. Legg þú mig nú á nádarbrjóst, nafnfrægi gud, sem heitir ljóst, hjúkrun, adstod og hjálparlid, hjartanu gef nú sannan frid.

20. Af þreyngslum minnar módur lifs, mig leiddir þú án daudans kifs, leys nú af þreyngslum likamans, lifandi sál til himna ranns.

21. Strax, sem min augna uppkom rós, eg fékk ad lita heimsins ljós, fyrr en eg allur fæddur var, fékkstu mér þá hid nægsta svar.

22. Svo láttu mina sálu nú, sjá þig i einni réttri trú, vertu sjálfur ljósmódir min, min sál fædist i hendur þin.

23. J skirninni mér skeinktir þig, skal eg

þér Jesú aptur mig, grandvarlega með góðri lund, gefa á minni dauðastund.

24. Oðeðinn tókst mig að þér fyrst, en nú sárbið eg, Jesú Krist, með trúar-hendi þér haldi' eg fast, herra, lát mig ei vanmegnast.

25. Strax, sem mér leystist túnga og tönn, til mín barst lífsins fæða sönn, af öldum kálfi; sál mín saug, sonar guðs blóð, þá dýrstu laug.

26. Heilagur andi hæstur þinn, hann er sá tryggðahríngurinn, sem sonur guðs mér gaf á hönd, giptast þá vildi' hann minni önd.

27. Skínandi föt mér skeinktir þá, að skyldir mig í þeim aptur sjá, bæði á dægri dauða míns, drottinn, og ríki föður þíns.

28. Eg kem hér fram með ekkert mitt, elskhugi minn, í brúðkaup þitt, sjá þú mig nú í sjálfum þér, saurugt er allt hvað með mér er.

29. Eg hef svo marga mæðustund, mænt eptir þínum dýrðar fund, finndu mig nú, þó liggi' eg lágt, lát mig ei ætíð eiga bágt.

30. Sé eg þig gegnum svart eitt ský, sitjandi himnaríki í, eg á nú til þín ekki lángt, en mér finnst bæði hart og strángt.

31. Eg styd mig nú vid ordid þitt, ervidi léttu, drottinn, mitt, sálin mín er af þúnga þjád, þyrst og sárhúngrud eptir nád.

32. Deyf þú nú alla daudans raun, drottinn, gjald mér ei verdug laun, eptir nád þinni minnstu mín, minningin lifir í mér þín.

33. Á nád legg eg mig lausnarans, lífid mitt er í valdi hans, gæzkan þín hefir grát minn stillt, gud, far þú med mig sem þú vilt.

34. Honum einum eg hef mig geymt, hans nád hefir mér ekki gleymt; raungódur, sem mér séstnú hjá, sálu minni mest liggur á.

35. Lífsins pantinn mér lagdir þann, lifandi anda heilagan, signetid þad med sannri list, setur á hjartad Jesúm Krist.

36. En hvar Jesús í brjósti býr, býr þar hans nád og elskan dýr, synda kvittan og miskun manns, mitt líf þad er í valdi hans.

37. Eg treysti gudi upp á øll, ord hans og held þau minn grundvøll, jørd og himnar forgánga greitt, en guds ord skeikar ekki neitt.

38. Eg vil í drottni sofna sætt, samvizku strídid allt er bætt, daudahaldi eg drottinn prís, dýrstur gef þú mér eilíft líf.

39. Kved eg i gudi gódan lyd, gledilegar þeim nætur býd, þakkandi øllum þeirra styrk, þjónustu, hjálp og kærleiks verk.

40. Astkæra þá eg eptir skil, afhenda sjálfum gudi vil; andvarpid sér hann sárt og heitt, segja þarf honum ekki neitt.

41. Unni hann ydur kærleiks koss, kvitt á hann einn ad skilja oss, gef þú þad, Jesú Kristi kær, kátir hjá þér ad finnumst vær.

42. Hlýdni alla og þolid þýtt, þad veiti gud mér harla blítt, gefi mig kvittan gud og menn, grátbæni' eg þess af hjarta enn.

43. Lúinn anda eg legg nú af, lífinu rádi sá, sem gaf, í sárum Jesú mig sætt innvef, sálu mína eg gudi gef.

44. Láttu mig drottinn, lofa þig, med lofi þínu hvíla mig, ljósid í þínu ljósi sjá, lofa þig strax, sem vakna má.

45. Láttu mig færa fram þau hljód, fyrst og seinast, minn drottinn gud, ad lofa þig í heidri hár, haldist þín dýrd um eilíf ár.

### Um sælu himnaríkis.

Lagid: Mikilli farsæld mætir sá.

Upp, upp mín sál, og ferdumst fús, frid-

arins borg ad ná, þar unnarsamleg eru hús, æskileg gudi hjá, þar sáluhjálp án enda er, án dauda lif eilíft, án hryggdar gledin aldrei þver, ángri þar verdur svipt, án myrkra ljósid aldrei dvin, eilífur gledidagur skín, veikleiki, ótti, výl né þrá, verdur ei nokkur þar, harmurinn einginn mæda má, mein ekkert snertir par, gefi' oss ad ødlast gledi þá, gud drottinn allsherjar.

2. Madur einginn hér mæla slíkt, meta né skynja kann, hvad fagnadar-lif er farsælligt, fridum í himna-rann; herrann vor Kristur sú er sól, sem ad oss forklárar, ljómum þar fyrir lambsins stól, líka sem stjørnurnar; augnanna sífellt er þar lyst, álita herrann Jesúm Krist, eyrun vor heyra ætíd fá, ilmandi raddirnar, sætur hljódfærasaungur sá, sífelldlega hljómar, gladir æ sýngjum gøfgun há, gudi til eilífdar.

3. Þar er prísud í þeirri borg, þrenningin guddóms há, hennar um gjørvøll heyrist torg, hljódføgur musicá, þar er án elli æskan hrein, án veiki heilsan klár, þar snertir ei hid minnsta mein, mann neinn um eilíf ár,

allri drottins med einglahird, útvaldir búa í þeirri dýrd, hverrar gledinnar yndid er, aug- liti guds ad sjá, ódaudlegleika íklædder, og eilífri birtu há, kórónur þeirra hefir hver, høfdum gulllegar á.

4. O, hvad farsæl ad er sú tíd, þá erum komnir þar, og eptir lidna heimsins hríd, heitum guds borgarar, frá allri mædu eymd og þrá, erum þá loksins frí, heidur, dýrd, gledi hljómar þá, himnesku landi í; æ hvad fagnadar vegsemd vor, vera mun háleitlega stór, þá endurlausnarinn afhendir, ástkærum fødur oss; fadminn á móti blítt breidir, býd- ur fram ástarkoss, hryggd og mæda þá horfin er, hørmúng og tára-foss.

5. Heilagan selskap høfum þar, himnesk- um gudi med, forfedur spámenn fullgløggt vær, fáum þar alla séd, æskileguſtu umgeingni, einnig þeim høfum hjá; sífellda elsku' og samþykki, sýna hver ødrum má, ásamt ó- kenndum øllum gløggt, ástmenn vora vér fáum þekkt, frændur og vinir finnast þá, fagnadi medur þar, blómleg og svo med

blídu sjá, børnin sín foreldrar, fagnadar verdur fundur sá, fremur en mann skynjar.

6. Þessi ad ødlast gædin góð, gef þú mér, drottinn minn, fyrir þins sonar blessad blód, bænheyrdu þrælinn þinn; þegar heiminum frá eg fer, frels mig af andar pín, skrýd mína sál' í himna her, herra, med blódi þín, ad eg útvøldum øllum med, eilífar þakkir fái téd, andlit þitt blída unn þú mér, alvaldur gud, ad sjá, einnig ad búa um alder, eilífar sjálfum hjá, svo eg án enda syngi þér sanctus og gloriá.

# Þridji parturinn

innihelldur
ýmislega kvedlínga
til gudrækuis idkunar og sidabóta.

---

## Fyrsti flokkur,

i hverjum finnast
nokkrir andríkir og gudrækilegir
kvedlíngar.

---

### Sumarvísa,

kvedin árid 1657.

Lagid: Lofid gud, lofid hann hver.

Vetrar tíd, víst er umlidin nú, farsæl, blíd, blessunarfull var sú; drottinn veitti lýdum lid, um ládid og grædi, heilsu, frelsi, fædu, frid, flest nádar gædi; menn og hjørd máttu ei neina, af lopti' og jørd, landplágu reyna; þakkargjørd, þvi skulum greina, ástar lystilegum hug: :,: lofadur hafi gefid oss gud, gáfurnar sínar :,:.

2. Vedur mjúk, von manna framar þó,

eingin fjúk, allsjaldan frost eda snjó, reyndi kindin raunar nein, rétt má svo inna, hvorki horku mun né mein, máttum því finna, þarfleg nægd, því var á fódri, skjól og hægd, skepnunni módri, þessa vægd, þokkum vér gódri, miskun ferskri drottins dátt, :,:hafi nú lof og heidur gud, á himni og jordu:,:.

3. Sjónum af, afla og fiskiplóg, herrann gaf, hverjum, svo dugdi nóg, vodinn brádur vinds og unns, vard eingum skædur, stýrdi ferd til sands og sunds, sá ollu rædur; um vora sveit, sóttin allfæsta, það eg veit, þjád hefir næsta, mjúk og heit, miskunin stærsta, drottins, veiti oss værd og vord; :,:helgum, prisum, heidrum gud, med hjarta og sálu:,:.

4. Hver fær tjád, talid og reiknad greitt, svoddan nád, sem oss fékk drottinn veitt, stundleg, andleg gædin gód, gáfurnar flestar, af fødur blídum þádi þjód, þær allra beztar; kynning hans, klárt ordid sanna, fridinn lands, farsældir manna, andskotans, ákefd réd banna, eingin þvingan lúdi lýd; :,:lofadur sé vor ljúfi gud, fyrir lánid sitt góda:,:.

## Mismunur veturs og sumars.

Lagið: O Jesú, edla blómi.

Kominn er veturinn kaldi, kastar að margri hríð, af drottins vísdóms valdi, veslast sú ársins tíð; sæl geymir sól ljóma, svølþrumir kul-hami, jel-rømum fjøl-fima, fyrna ørnin stríð.

2. Grund frýs, en grasið dofnar, gripina vantar skjól, bersnøggir standa stofnar, styrðnar lim, skóginn kól; smár fuglinn þreir þogli, þver hygli, dýr ragla, ber segl frá byr-trýglum, blandið vinda-hjól.

3. Skørp frostin skemmta eigi, skepnan hver ber sig lítt, snjór hylur víða vegi, villist því margur títt; klæðlausir freð-frusu, frið-hreysi nauð kjósa; að húsum féð flasar, fælist kulið strítt.

4. En þegar vorar aptur, uppgeingur sólin skær, øllu nýr eflist kraptur, annað bragð loptið fær; køld hýrnar fold forna, fylld kjarna mold styrðnuð, sýld meyrna sjaldornuð, svellin fjøllum nær.

5. Fuglar úr fylgsnum hreifast, féð drifur húsum frá, dýrin um skóga dreifast, dag

...an fjølga þá; menn hýrast, en ærin ønn ...ist, graunfærum, hlunn-jórum, hrønn ...a, hrindir sundið á.

6. Døggina drífa lætur, drottinn á kaldan snjó, verkar svo mildimætur, moldin þur verður frjó; glis skógar, grøs haga, glassøgur rós þæga, rís, þegar rásdrjúga, raka þokan bjó.

7. Frostið þó fargi gróða, frjóvgast samt upp á ný, frækornsins sjá menn sjóða, sín geyma blómstrin frí; krapt fróni ljúft léuar, lopt skinið drift hreina, gæft duna, svipt sjónum, sjotnuð vatna ský.

8. Sumarsins blóminn sæli, sýnir oss drottins mátt, vetur þó kaldur kæli, korn, jørð, gras, fræið smátt; árstiðin úr sæði, ør gæði hýr leiðir; frjór lýður fær guði, friðan heiður þrátt.

### Ungmenna morgunbæn.

Í þinu nafni uppvaknaður,
Er eg, Jesú, guð og maður.
Lof sé þér fyrir líf og gæði,
Líkamans heilsu føt og fæði,
Og allt það þín óþreytt mildi,
Aumum mér til leggja vildi;

Bid eg þig, minn blídi herra:
Blessun þína ei lát þverra,
Hegdun minni á hverjum degi,
Haltu á sønnum dyggda vegi
Lát mig njóta úngdóms ára,
Er þú barst í manndóm klára.
Gef uppfrædi æsku mína,
Andi þinn fyrir verkun sína,
Svo í ótta og elsku þinni,
Avøxt gódan færa kynni.
Hlýdni, tryggd og trúna bjarta,
Tendra og nær í minu hjarta,
Ad mér svo med aldri þrønnum,
Aukist nád hjá gudi og mønnum.
Heims og satans hrekkja snørum,
Hrind frá mér svo ei óvørum,
Mig ógætinn í sér festi,
Edur dragi í synd og lesti.
Vernda mig frá voda øllum,
Vondum dauda og slisa føllum;
Einglar þínir ad mér gæti,
Eingum svo eg meidslum mæti.
Mitt verklag og miskun þína,
Mér lát vera unun mína.
Auk mér skilning orda þinna;
Eru þau lampi fóta minna.
Gef mér jafnan gott ad læra,
Gódlyndum vid alla vera,
Varfærum í velgeingninni,

Vongódum, þó raunir finni
Ljúfi Jesú, með lífi og öndu,
Legg eg mig í þínar höndur;
Þar vil eg fús að lyktum lenda,
Lofaður sértu' utan enda.

## Ungmenna kvöldbæn.

Nú vil eg enn í nafni þínu,
Náðugi guð, sem léttir pínu,
Mér að minni hvílu halla,
Og heiðra þig fyrir gæzku alla,
Þáða' af þér á þessum degi;
Því er skylt eg gleymi eigi;
En það má eg aumur játa,
Angri vafinn sýta og gráta:
Móðgað hef eg margfaldlega
Mildi þína guðdómlega.
Útslétt mínar syndir svartar,
Sundurkramið lækna hjarta
Afþvegið í æðsta flóði,
Endurlausnarans Jesu blóði,
Svo eg kvittur sofi' í friði,
Sál og líf af eingla liði
Umkringd, satans illsku hrekki,
Ógn og slægðir finni ekki.
Blessa hús og hvílu mína,
Hjástoð lát mig merkja þína,
Þá mun aðsókn illra anda,
Ei hið minnsta kunna' að granda.
Lát mig þeinkja' á þessu kvöldi

Það: eg lifi i veiku holdi;
Brothætt gler og bólan þunna,
Brotna snart og hjaðna kunna.
Þú, einn guð, skalt þar um ráða,
Þinar knýj eg á dyr náðar,
Af míns hjartans innsta grunni,
Andvarpa og bið með munni:
Þegar eg skal seinast sofna,
Sál viðskilur, fjör mitt dofnar,
Hjartans faðir, i hendur þinar,
Hversa lát þá öndu mína;
Hold i jörðu hægt lát blunda,
Helgra þar svo bíði funda,
Og upprisinn að eg víki
Inn með þér i himnaríki.
Þar mun eg þúsund þakkir færa.
Þér sé lofgjörð, pris og æra.

## Hugbót,

þá húsin brunnu i Saurbæ 1662.

Lagið: O, faðir minn, eg þrællinn þinn.

Guð er minn guð, þó geysi nauð, og gángi þanninn yfir, syrgja skal spart, þó mista' eg margt, máttugur herrann lifir; af hjarta nú, og hreinni trú, til hans skal eg mér venda; nafn drottins sætt, fær bolið bætt, blessað sé það án enda.

2. Gaf mér hans náð, gott lukku ráð,

ad gledinnar efldist kraptur, frjálst á hann þá, og fullvel má, frá mér taka það aptur, hans hjálpin blíð, á hverri tíð, huggun virðist mér senda; nafn drottins sætt, fær bølið bætt, blessað sé það án enda.

3. Tók ei djøfull, né tøfrafull tilviljun burt eign mína; sá, sem það gaf, svipti því af, sorgin skal øll því dvína, mitt bætir ráð, með mildi og náð, hans miskun þúsundfenda; nafn drottins sætt, fær bølið bætt, blessað sé það án enda.

4. Guð elskar þann, sem hirtir hann, hefi' eg þá trúna vissa, vil eg með hind, vesøl barnkind, á vønd føðursins kyssa, heilsu, lán, féð og heiður með, hans náð vil eg af henda; nafn drottins sætt, fær bølið bætt, blessað sé það án enda.

5. Af mér þó féð og auðlegð með, öðum svo gánga megi, grátbæni' eg nú, góði Jesú, gleymdu mér þó aldregi; lát mig hjá þér, þá héðan fer, í himna sælu lenda. Nafn drottins sætt, fær bølið bætt, blessað sé það án enda.

## Idrunarvísur.

Med sínu lagi.

Gud á himnum hjálpi mér, og huggi sálu mína, særdan huga sorgin sker, syndir hjartad pína, þúngan kvída brjóstid ber, berst vid þánka sína, mædist hold en leingist líf, lángvesælt er harma kíf, ei vill ángur dvína.

2. Laungum gjøra mér lángsamt ged, lidnar æfitídir, heldur seint eg hefi þad séd, hefndum [illegible]lin kvídir, daudans ógn og ótti med, opt í holdíd strídir, hugraun sú er hardla sár himna fadirinn dýrdar klár, bæti bolid um sídir.

3. Getinn var eg í sekt og synd, svo mig módirin fæddi, eptir fornri Adams mynd, eins og Davíd rædði; því er sálin sjúk og blind, sorgin hjartad mæddi, holds náttúr-an heimsk og villt, hersilega med øllu spillt, í vonzku áfram æddi.

4. Snemma hefir bernskan blekkt, barn-dóms hug og sinni, ádur fyrri' en fékk þad þekkt, frá því skýra kynni, ad styggja gud en safna sekt sálu' ad glata minni, var hid

fyrsta verkid mitt; voldugt, Jesú, nafnid þitt, bót á bølinu vinni.

5. Leingi hefir þó lejtazt vid, líknar fadirinn mildi, ad leida mig frá lasta sid, svo lífid ødlast skyldi, med þolinmædi' og blídri bid, bjarga mér hann vildi; en eg sló því øllu' í vind, elskan holds og dárleg synd, heimsku hjartad fylldi.

6. Illa hefir mig holdid ginnt, og heimsins lystin bráda; satan sló mér svikamynt, séstnú fátt til ráda, því er hjartad blekkt og blint, þad bid eg gud ad náda; þreji' eg vid þann hryggdar hag, harmar bædi nótt og dag, sálin þrautum þjáda.

7. Gud minn hefi' eg raunar reitt, til reidi' og heiptar brædi, hans milda nád og þolged þreytt, med þrjózku' og synda ædi, grimma' yfir mig gløtun leitt, gamall og úngur bædi, samvizkan því særd er mín, sæti Jesú, gæzkan þín, hana huggi' og grædi.

8. Um sídir þó eg setji mér synda girnd ad deyda, holds náttúran þrjózk og þver, þángad vill mig leida, sem tídast ádur tamdi hún sér, á tøpunar veginn breida; viljinn

ekki fær sig frí, fjøtrum daudans vefst eg í, sárlega mig þó meida.

9. Hvorki ber eg til hug né dád, hjálp mér sjálfum veita, einkis nýt eru øll mín rád, þó ætti eg þeirra' ad neyta; Jesús minn hefir nóga nád, nú vil eg þángad leita, hann mun aumur á mér sjá, eflaust fæ eg huggun þá, sem bølinu kann ad breyta.

10. Þó stærri virdist misgjørd mín, en má eg sjálfur greina, mér er, Jesú, miskun þín, mildust, gæzku hreina, hjá þér aldrei hjálpin dvín, helzt mun eg þá reyna, hér vid hressist hjartad mitt, heilagasta blódid þitt, lækning minna meina.

11. Þó geingid hafi eg glæpa stig, gálaus mørgu sinni, elskad hold en hatad þig, af heimsku' og ofdirfd minni, gódi Jesú, minnst' á mig, í miskunsemi þinni; særd og lemstrud sálin er, sýndu vægd og linkind mér, svo hjartad huggun finni.

12 Mig hefir djøfull sárum sært, og svikid af lífsins vegi, kránka sál úr klædum fært, hún kann sér bjarga eigi, øllum krapti tapad og tært, tjón þad mest eg segi; ó þú sæti

Samaritan, sjádu' aumur á þeirri smán, svo eg ei út af deyi.

13 Gózi því eg þrádi þrátt, af þinni gæzku hendi, illsku girndin eyddi brátt, aptur drafid sendi, hefi' eg leingi húngra mátt, heim nú loksins vendi, taktu vid mér útlegd úr, eins og fadirinn hjarta-trúr, í brjósti' um barn sitt kenndi.

14. Lækna fyri þinn dýran deyd, drottinn sálu mína; fárleg synda fjøturin greid, svo finni' eg huggun þína, villtan saud á veginn leid, varginn lát ei pína, opna hug og hjartad mitt, svo heilagt nádar ljósid þitt, skært megi þar skína.

15. Hjá fødur þínum legg mér lid, lausnarinn Jesú gódi, svo eg finni sátt og frid, sviptur þúngum módi, audmjúklega' eg um þad bid, af ást og táraflódi, segdu: eg sé ordinn einn, af øllum syndum klár og hreinn, þveginn í þínu blódi.

16. Framar syndir forlát mér, fadir-inn dýrdar sæli, fyrir dýrstan Jesú dreyra hér, af døprum hug' eg mæli: kastadu ei frá augum þér, ómaklegum þræli, efldu líf med

ást og dáð, svo aldrei mig frá þinni náð, freisting nokkur fæli.

17. Á fyrirheitin heilög þín, af hjartans grunni' eg treysti, frá djöfli, synd og sárri pín, son þinn kær mig leysti, með beiskri kvöl og blóði sín, barn sitt fallið reisti, herra guð, mér hjálpa þú, svo haldist eg við rétta trú, þó frekt mín satan freisti.

18. Heilags anda hjálpin þýð, hug og sinni geymi, svo aldrei héðan af illsku stríð, yfir mig syndin sveymi, þá döpur nálgast dauðans tíð, drottinn sálu geymi; veiti mér þín líknin lið, leið í eilífan dýrðar frið, héðan úr þessum heimi.

19. Allar skepnur alla tíð, af öllum hug' og rómi, syngi þér lof, sem veröld er víð, voldugur drottinn frómi, Jesú Kristi þökkin þýð, þar með fögur hljómi, heilögum anda' á himni' og láð, fyri huggun, styrk og líknar ráð, aukist æra' og sómi.

### Vísa dróttkveðin.

Hver græðir hjartans kvíða?
Hver kætti menn grætta?
Hver sótt hindrar hætta?

Hver snaudan vann dauda?
Jesús huggar, hryggd lógar.
Hann græddi sorgmædda.
Hann lifi heilsu gefur.
Hann snaudan vann dauda.

---

## Annar flokkur
innihelдur
heilrædi og uppvakningar
til kristilegs framferdis,
sýnir einnig, hversu fallvalt og litilsvert sé
heimsins ágæti og eptirlæti.

---

### Heilrædi.

Ungum er þad allra bezt, ad óttast gud sinn herra, þeim mun vizkan veitast mest, og virding ekki þverra.

2. Hafdu hvorki hád né spott, hugsa' um rædu mína, elska gud og gjørdu gott, geym vel æru þina.

3. Foreldrum þinum þéna' af dyggd, þad má gæfu veita, varast þeim ad veita styggd, viljir þú gott barn heita.

4. Hugsa um þad helzt og fremst, sem heidurinn má næra, aldrei sá til æru kemst, sem ekkert gott vill læra.

5. Lærdur er í lyndi gladur, lof ber hann hjá þjódum, hinn er ei nema hálfur madur, sem hafnar sidum gódum.

6. Opt er sá í ordum nýtur, sem idkar menntun kæra; en þussinn heimskur þegja hlýtur, sem þrjózkast vid ad læra.

7. Vertu dyggur, trúr og tryggur, túngu geymdu þína, vid eingan styggur, né í ordum hryggur; athuga rædu mína.

8. Lítillátur, ljúfur, kátur, leik þér ei úr máta; varastu' spjátur, hædni, hlátur, heimskir menn svo láta.

9. Víst á valt þeim vana halt, vinna, lesa, idja; um fram allt þú ætid skalt, elska gud og bidja.

## Vísur um Lúters frædi.

Klár Lúteri frædin fródir,
Finna kunna menn hér sett á íslenzkt mál,
Lesid, prísid lýdir gódir,
Lærid, heyrid, gjörid rétt og sedjid sál;
Ljúfra gjafa njótid, neytid,
Nádar tídir kannizt vid,
Drottins lítillátir leitid,
Lotníng veitid,
Bidjid gud um gódan frid.

2. Bædi medur munni' og penna,
Mest á sidsta aldar køldum tíma' og stad,
Menn vel svinnir kunna' ad kenna,
Koma heimi skyldug gjøld, ef forsmá'r þad;
Ordid dýrdar dádum prýdum,
Dyggar leggjum þakkir mót,
Þeim, er sóma sædum fridum,
Sádu tídum,
Sprettur gott af gódri rót.

### Kristins manns athæfi.

Sérhvad hefir sína tíd, svo er ad hlæja og gráta,
Hóf er bezt ad hafa' á øllum máta.

Finn eg þad í frædi hreinu, fródir menn sem tøludu' um, ekki skedur allt í einu, ýmsum skiptir tímunum, á stødugu' ekki stendur neinu, stundleg sorg og lukkan blíd. Sérhvad hefir sína tíd. Eins fyrir manni' og menja reinu, margt kann á ad bjáta. Hóf er bezt ad hafa' á øllum máta.

2. Þess áttu med greind ad gæta, gángi þér vel med settan hag, þú kannt ødru má ske mæta, á morgun, heldur en var í dag, tvennt hefir til ad gledja' og græta, guddóms maktar høndin þýd. S. h. s. t. Tjáir eingum þess ad þræta, þad er audrádin gáta. H. e. b. a. h. á. ø. m.

3. Tregast ei, þá ervitt veitir, einhvern tíma sorgin dvín, svo náttúran sjálf því breytir, sólin eptir regnid skín; gud þeim øllum huggun heitir, hér sem lída forløg stríd. S. h. s. t. Til ørvæntingar þig ei þreytir, þó þú megir gráta. H. e. b. a. h. á. ø. m.

4. Vertu' hógvær, þá vel þér geingur, svo verøldin þig blekki sízt, á augabragdi allt forgeingur, audnu lán, þá hjólid snýst, velgeingninnar støkkur streingur, stundum minnst þá varir lýd. S. h. s. t. Hindra jafnan horskur dreingur, holdid sig ad státa. H. e. b. a. h. á. ø. m.

5. Gudi' er bezt ad trúa, treysta og taka því vel ad høndum ber, vér skulum ekki frekt á freista, ad fylgja því, sem holdid lér, gudhrædslunnar nærir neista, nádin drottins gæzku þýd. Sérhvad hefir sína tíd. Sá oss hefir af løstum leysta, hann leidi hryggva og káta. Hóf er bezt ad hafa á øllum máta.

Varhygd.

Audtrúa þú aldrei sért,
Aldrei tala' um hug þinn þvert;

Það má kalla hygginş hátt,
Að heyra margt, en skrafa fátt.
Tak þitt æ í tíma ráð,
Tókst, þó ei sé lundin bráð;
Vin þinn skaltu velja þér,
Sem vitur og þar með trýggur er.

## Of og van.

Eitt er við ofi hætt, ef augun líta gullbaug,
Ef höndin og hugarlund, horfa upp á sitt vald.
Hittist varla hóf rétt, þá hlaupið er í gum-kaup.
Geldur þess galið hold, að glisi verður opt slis.

2. Hitt er van opt hætt, að una ei við litinn mun,
Egna til sín ógagn, og eir gulli virða meir;
Slisinn þykir lánlaus, þá líður hann sitt eigið stríð;
Ríkum opt í raun rak, ræktarleysið fátækt.

## Gott og Illt.

Gott er að geyma sitt, og geta prófað rétt hóf, vera ör og vel spar, og veita eingum rángsleit, dælt þykir eigið allt, öndvegis í sjálfs hönd, djarfur hver af skiptum skerf, skjóta finnur hugbót.

2. Illt er að sjá sult, á sínum, þá brauð dvín, letin víst ef út át, áður gefið forráð, líka þykir ljótt ok, að láta út fyrir drykkju-stát, endilega er leið lund, þá lángar einn á húsgáng.

3. Gott er ad greina satt, og gefa þjódum heil rád, skamta nidur skemmt þad, er skedur ekki spott med, hollustn hønd full, hæstri geingur dyggd næst, unna þeim, sem á mann, eina prísa' eg þá grein.

4. Illt er á óheilt, ad eggja þann, eg rádlegg, lastanna er lygd vest, þó lýdir virdi gaman-smíd; kæfir gledi kránkt líf, kastar heillum baklast. Dreissid med sér dregur hlass, af dyggdalausri ótryggd.

5. Gott er ad geyma sátt, í gudi hafa føgnud, þola bædi og þreja vel, þekkja sinn eiginn flekk, heilsa og hønd frjáls, heitir bezta þad eg veit, lítillæti lund kát, líka er haldin dyggd rík.

6. Illt er hatur óstillt, óttaleg mun hugar sótt, þúngt eg held ad þola ráugt, þjáning gjørir forsmán; vonda kalla eg vél synd, vamm kemur spott' fram, plága mun og písl nóg, ad pínast fyrir verk sín.

## Tvø Vers[1].

Lagid: Øldúngar Júda annars dags.

Gud nádi nū hvad geingur tregt, geysar

---

[1]) Fyrra versid finnst í einu exemplari þad 29.,

ránglætið heldur frekt, á voltu hjóli heimurinn er, hnignandi fer, til falls með öllu flýtir sér.

2. Öll manna hugsan, hjarta' og geð, hnigur til þess að girnast féð, ýmisleg hegðan örg og ljót, en ei finnst bót, hefnd mun því koma hörð á mót.

**Vísa.**

Fyrnist heimur, fáheyrt skeður,
Frelsarinn Jesús geymi' oss vel.
Hans hingaðkoma guðs börn gleður,
Þó græti þar til sorgar-el,
En þá verða úti' öll óveður,
Í hendur guðs eg kristna fel.

**Hexametrum.**

Holdið ofkátt veit fyri fram fátt, hvað falla mun þægra,
Reiðir sig þrátt á megn sitt og mátt eða mannorðið frægra;
Ofstýrilátt, það ætlar sér hátt að endingu dægra;
Sá er við gätt, þó sjáist ei brátt, sem setur það lægra.

**Hexametrum.**

Öld óðum spillist, ugglcysinu dárlega fyllist,
Glæpa vegur gyllist, girnd holdsins margur aðhyllist.

---

en hið síðara það 34. í sálminum: Gef eg mig allan á guðs míns náð; en önnur sex exempl. útiláta þau.

### Um misjafnt hamíngju lán.

Lagid: Opt vindar eik þjá.

Varna lund blind fædd, vid brjóstin móður kúra, æskustund ómædd, fyrir eingu kann ad stúra, en þad mund algædd, er mannsins náttúra, skammt mun til skúra.

2. Einn ef kemst hér hátt, og hyggur sér til kæti, á þá skemmst addrátt, eitthvad þad menn græti, hjartad kremst, hvarf brátt, helzt er þókti mæti, allt eptirlæti.

3 Glían reis grá hart, gnap þá stormur hrollti, öldu geys grimmt margt, glæstum reida spillti, þessi eys, en snart, önnur rúmid fyllti, og bátnum bilti.

4. Sker, ad ljær, skin sól, skírt ad morgun kosti, um adra grær, eikt ból, yrju daggar rosti, sídan slær, heims hjól, hvestur gustar losti, med feikna frosti.

5. Því er allt í heim', ef svo mætti greina, næsta valt, þad þeim, þykir víst, er reyna, á hlidum hallt hálft tveim, hjólid lukku teina, fer braut ei beina.

### Veraldar Fláttskapur.

Sama lag.

Svo sem gler, sýnist mér, sælan hál, ver-

aldar, hvíkul hér, hvad lízt þér? hvítt ad ofan faldar, undir ber, ef þú sér, illsku brúnir kaldar, og táli tjaldar.

2. Margan hátt, hún þrátt, hóf í yfirlæti, lukkan kátt, lék dátt, litla stund med kæti, stód vid gátt, fljód flátt, felldi þann úr sæti, frá mestu mæti.

3. Alits fríd, fræg blíd, fyrst hún mørgum reynist, heimskum lýd, hæg þýd, hitt þó undir meinist, slúngin stríd, slæg-smíd, slóttug rétt svo greinist, brátt burtu leynist.

4. Lukkan hál, heims prjál, hold og blódid káta, flædar-bál, frekt brjál, fram úr réttum máta; þad er tál, svikur sál, um sídir kann ad láta, sárt suma gráta.

5. Vid leigu-ból, láns-stól, líkist heimsins sæla, ókyrrt hjól, ragl, ról, reykjar dupt og svæla, glíslegt hól, gabbtól, ginnir mammons þræla; hver má því hæla?

6. Daudleg mynd, mannkind, moldar leirinn veikur, beinagrind, blásin vind, bóla vatns og reykur, hladin synd, lauslynd, sem logi skráþurr kveikur, á þrædi líf leikur.

7. Holdid bjart, ber skart, bædi gull og

klædi, en þú vart, óþarft, ádur rotid sædi, verdur snart, veik art, vesælt madka fædi, sem øll endar gædi.

8. Volsid hér, valt er, ef viltu rétt ad grunda, lífid þver, fljótt fer, fræktin øll til hunda; kistu hrer, kropp ber, kaldan út med skunda, opt innan stundar.

9. Illum sid sjá vid, sannra leita dáda; hógvært lid fær frid, sem flýr til drottins náda; stunda grid, gud bid, ad geyma sálu þjáda; gæt gódra ráda.

### Heims ósómi.

Sama lag.

Hversa happs tímar, høfud sundlar kvilla, glossa gnaps brímar, get eg sjónir villa, svipan straffs stímar, stjarnan spá mun fylla, og athæfid illa.

2. O, ad tár ákøf, af augum jafnan rynni, eda nár í grøf, yndi' ad hvílu sinni, synda sár upphøf, sálu ógna minni, ef kannast vid kynni.

3. Agirnd grá æddi, yfir fjøllin háu, ótrú flá flæddi, á fróns hálsana smáu, þrjózkan þrá þræddi, þad nær blindir sáu, þar lægdir lágu.

4. Vizku vakt sofnar, veraldar bjallan klingir, drottna makt dofnar, dala klukk-

an hringir, stóra prakt stofnar, sá stimpla málminn þýngir, því margt að þýngir.

5. Orð herrans aktast, í allt of litlu gildi, hverúð manns maktast, meir en vera skyldi, synda fans fraktast, frón og hérud fylldi, tráz-viljinn trylldi.

6. Von er því, von er, verði guð að hefna, hætta ný nú hér, nærri vill oss stefna, frá eg sný, fjær fer, framar meir að nefna røk rauna efna.

Verøldinni tildrukkid.

Vond ertu, verøld, með vélabrøgðin margføld, þeir fá sjaldan góð gjøld, sem gefa sig á þín høld; þú ristir einum spottspjøld, og spéar hann upp í há vøld; múta, flærð og mein køld, markað er á þinn skjøld.

2. Þeim sem þú ert bráð blíð, býr þar undir helstríð, hvergi muntu heilsmíð, þó haldin værir dáfríð; vonzku þinnar ver hríð, vestnandi fer ætíð, sá þitt varast sárt níð, sælan tel eg þann lýð.

Hversu fánýt sé fordildin.

Følnar fold, fyrnist allt og mæðist, hold er mold, hverju sem það klæðist.

Nú er raun það sannast víða, svikul og volt er heimsins blíða, í spakmálum lærðra lýða,

leingi þar um rædist. Hold er mold, hverju sem þad klædist.

2. Hugsa' eg opt í hyggju brunni, af hverju menn sig stæra kunni, þó er þad næsta' í náttúrunni, ad nakinn sérhver fædist. H. e. m., h. s. þ. k.

3. Fordild øll hún flýr úr huga, þá feigdin mann vill yfirbuga, litid stakkar døkku duga, þá daudinn inn ad lædist. H. e. m., h. s. þ. k.

4. Hvad gildir, þó ríkur rambi, regist vid og standi' á þambi? einginn er svo digur í drambi, ad daudinn nokkurn hrædist. H. e. m., h. s. þ. k.

5. Þó á þér skíni' útlenzk draktin, yfirlætis og vizku prakin; trú þú mér, ad minkar maktin, af mødkunum þá snædist. H. e. m., h. s. þ. k.

6. Adur en (kann ske) úti' er nóttin, af þeim tekur ad draga þróttinn, kemur þá bædi kveisa' og sóttin, kvillinn sár ei grædist. H. e. m., h. s. þ. k.

7. Þó stundum gángi þeir støkkum búnir, á stigvélum séu sporar snúnir, út vid grafar bakkans brúnir, bein leid øllum þrædist. H. e. m., h. s. þ. k.

8. Silfurpør og dýrir dúkar, danskur kjóll og treyur mjúkar, ad sálunni litid seinna hjúkar, þá sorgarhitinn grædist. H. e. m., h. s. þ. k.

9. Þó hygginn sért og hæglundaður, hafðu ráð min kristinn maður, hér er svo valtur heimsins staður, hinn fær gott er mæðist. Hold er mold, hverju sem það klæðist.

## Um ágirnd og aurasafn.

Mig ángrar margt hvað manns athæfeð,
hvernig heimi' er háttað, hef' eg vel séð.

Öldin óðum spillist, ósið margur hyllist af réttum vegi villist, von þó hjartað kvillist, heimur af hrekkjum fyllist, hægt mun ekki að dylja það. Mig ángrar margt hvað. Synd og gózið gyllist, svo geti menn eignazt féð. Hvernig heimi' er háttað, það hef eg vel séð.

2. Upphaf allra klækja, er ágirnd fast að rækja, aurasafnið sækja, sitt frá hverjum krækja lög með limsku flækja, lagsmenn sina mest hún bað. M. á. m. h. Öfund og ofstækja, af því vara réð. H. h. e. h., þ. h. e. v. s.

3. Hvar sem að húsrúm tekur, heimsku' og blindleik vekur, blessun i burtu rekur, búinn er skaðinn frekur, tryggð og hógværð hrekur, heimtist fals i þeirra stað. M. á. m. h. Illu

## Öl-erindi,

ad skilnadi kvedin.

Nú er eg gladur á gódri stund, sem á mér sér, gudi sé lof fyrir þennan fund, og vel sé þeim, sem veitti mér.

2. Vitjad hef eg á vina mót, sem nú á sér, reynt af mørgum hýrleg hót; vel sé þeim, sem veitti mér.

3. Þó munngáts ord séu mørg og smá, sem opt vid ber, til lasta ekki leggja má; því veldur sá, sem veitti mér.

4. Yndi er ad sitja øls vid pel og gamna sér, en fallegt er ad fara vel, þó ør sé sá, sem áskeinker.

5. Gott er ad hafa gódan sid, sem betur fer, áldrei skartar óhófid, og er sá sæll, sem gáir ad sér.

6. Gott er ad hætta hverjum leik, þá hæst fram fer; nú skal hafa sig á kreik; vel sé þeim, sem veitti mér.

## Leirkarls vísur.

Skyldir erum vid skegg-karl tveir, skammt mun ætt ad velja, okkar beggja er efni leir, ei þarf leingra telja.

2. Vid høfum þad af okkar ætt, efnid slíkt eg þekki, bádum er vid broti hætt, biltur þolum ekki.

3. Þad er annad ættarmót, ad okkar hætti réttum, vid høfum bádir valtan fót, veit ei nær vid dettum.

4. Ilát vínsins athuga vønd, erum vid þess á milli, og þurfum bádir hentuga hønd, svo hvorugur sínu spilli.

5. Einn eg mismun okkar fann, ef áføll nokkur skerda, eg á von, en aldrei hann, aptur heill ad verda[1].

---

[1]) Paraphrasis metrica biskupsins Mag. J. Þorkelssonar Vídalíns.

Non est in vasti tota farragine mundi
    Res mihi tam similis, qvam meus urceolus,
De luto terrae finxit mihi membra creator,
    Materiemque meo terra dat urceolo.
Communem loquitur gentem constantia, nam pes
    Alterutri neuter certior esse solet:
Nos finxit vino lecythos natura caducos,
    Auxiliatricem poscit uterque manum.
Dividimur tamen hoc, vitium si traximus ambo:
    Ipse mihi, nunquam redditur ille sibi.

# Barnaspurningar,
## um kirkjusidi og ceremoniur, úngdómi og einfoldum til fródleiks.

### Formálinn.

Margt er ónumid mønnum í úngdómi,
Því eru skólar settir, ad skerpa næmi.
Gagn's mun ófródum gud tillagdi þenna,
Þeir eldri eiga ýnglingum idnþróttir kenna.
Sá lærdi á vargjørt lánardrottni sínum,
Sem lét hann komast ad visdómi vænum.
Sá úngi á næmi ferskt vid gud ad virda,
Og í fjársjód þeim flest gott hirda.
Ad sinni skyldu sérhver á ad gæta,
Og ei ákvedid verk ógjort láta.
Því er þad fródum fordild og æra,
Sem flesta láta af sér frædast og læra.
Ungum horfir helzt til heidurs og sóma,
Idkun og aukning náms ekki forsóma.
Sá, sem góds leitar, góds fær ad njóta,
Margt kann órádþæginn af sér ad brjóta.
Hér skal Kirkjuvit koma til greina,
Ungra og einfaldra úrlausnir reyna.
Þeir þurfa ad kunna sig, sem koma í hofgarda,
Mér þykir um guds hús þó meira varda.
Illa tilreiddur í kirkju koma
Mun kristnum virdast til mikils ósóma.
Heimska' er ad horfa á helg verktýgi,
En, hvar til þau þéna, vita þó eigi.

Ad heyra á heilagt mál á helgum degi,
Til vansa verdur þeim, sem vitkast eigi.
Ad horfa á helg tilfaung húsins bezta,
En deili hafa eingin á, er dárlegt næsta.
Gjöri einginn spott ad spursmálum þessum,
Sem eg hér framset í samstædum versum.
Sá, sem vel þiggur, vel bid eg njóti,
Fari honum vit í voxt, en fáfrædi þrjóti.
Leidrétti, ef lita á, lærdir vitringar;
Þegi eru fyrir þá gjördar þessar spurningar.
Hver, sem vitkast vill, vid visdóm auki;
Einginn verdur fullnuma fyr en í guds ríki.
Lærandinn lærir hér svo leingi, sem lifir,
Gud gefi oss sinni gott ad hafa yfir.

---

1. **Hvad viltu, kristinn madur, til kirkju þinnar?**
Ad sækja þángad gagn sálar minnar.
2. **Hvad er sálar gagn, seg mér af þessu?**
Ad helga hvíldardag og hlýda messu.
3. **Veiztu, hvad hvíldardagur hefir ad þýda?**
Viku sjöund væna og vigd er til tída.
Ellegar ad segja svo í máli mjúku:
Pad er helgur dagur í hverri viku.
4. **Seg mér, vid hverja hvíld hann er kenndur?**
Guds sjálfs — sem í Genesis bók stendur. —
Heila sex daga gud heiminn skapadi,
Þann sjöunda hvíldist hann og í senn helgadi.

5. Hvort vard gud þreyttur, þá hann heim-
inn gjørdi?
Nei; þvi hann vann allt med almættis ordi.
6. Hverninn hvildist hann og þó án þreytu?
Hann lét af ad skapa, þó lángtum meir gæti.
7. Hvernig helgadi gud hvíldardag fyrsta?
Hann setti hann til vidfrægdar verkinu bezta.
Hann var stiptadur helzt mannsins vegna,
Sem vilja guds hefir vit á ad gegna.
Á viku hverri eiga menn verk guds ad grunda,
Sex daga á holdid, en sál þann sjøunda;
Skal þá um leid hver á skaparann minnast,
Til heidurs vid hans verk i helgum stad finnast.
Þvi ber hann fagurt hvildardags heiti.
Sjøundi á ad afslétta sex daga þreyti.
8. Héldst leingi skøpunar skikkun sú góda?
Allt þar til Jesús uppreis af dauda.
Þann mikla hvildardag mæddur af pinu,
Hvildist hann i greptrunar herbergi sinu.
En þann næsta dag med upprisu sinni
Helgadi Kristur, svo hafdur sé i minni.
Rann þá upp spónnýr drottins dagur;
Mestan bata fékk mannkynsins hagur.
Og þá urdu dagaskipti til dýrrar sjøundar,
Til heilags helgihalds, heilags samfundar.
Sidan hefir køllud verid sunnudags helgi,
Henni trú' eg endurlausnaræran fylgi.
Helgir postular hann þar til vøldu,
Med rádi heilags anda, þá ritningar skildu.

Við sól er kenndur vegsemdar mestur
Drottins dagur vor í dagatali fyrstur.
Á honum skópst hauður og himin með ljósi,
Drottins margfaldri dýrð trúi' eg hann hrósi.
Á honum réttlætis sól rann upp í heiði,
Þá lífið fékk sigur, en dauðinn deyði,
Því er hann og drottins dagur kallaður.
Sá, sem hann heldur vel, er heilagur maður.
Á sama vikudag sendist af hæðum
Heilagur andi guðs með himneskum gæðum.

9. **Hvað kallast að helga hvíldardaginn?**
Að gjöra sem kenna guðs kirkju lögin.
Helgar sá hvíldardag, sem hefir í minni
Öll sköpunarverk með endurlausninni.
Og heilags anda helgunar gæði,
Sem alla menn með orði guðs endurfæðir.
Sá, sem með alúð orði guðs hlýðir,
Af heyrn öðlast trúna og hjálpræði um síðir.
Sá lærir þrennan guð að þekkja og dýrka.
Hlið himins er honum heilög kirkja.
Hver, sem ákallar í helgum söfnuði
Nafn síns drottins, náð fær hjá guði.
Hver, sem á helgum degi herrann prísar,
Sannan guðs Lazarum sig bevísar.
Sá, sem guðs sakrament með sóma brúkar,
Sinni þurfandi sál sætlega hjúkrar.

10. **Kynntu mér, hvað kirkja þýðir?**
Það er heilagt hús, sem helgan guðs prýðir.
Kirkja heitir bænahús Krists dýrlinga,

Eda vigt herbergi ad tala um gud og sýngja.
Kyrios í grísku máli er drottinn dýrdlegur,
Guds hús af gudi sjálfum glóserun dregur.
11. Hvad merkir kór, þar Krists er altari?
Í saungvigdum parti sýngjandi skari.
12. Hvad er altari med sínum sóma?
Pad er gøfug stó guds helgidóma.
Á altari voru offur løgd ádur til forna,
Og kveikt upp reykelsi kvøld og morgna.
En nú er þar andlegt bord andlegrar fædu,
Par kennimenn tilreida Krists kvøldsnædu.
13. Því eru lífleg liós sett á altari?
Svo helgidagsprýdin sé því háleitari.
Sú seremonia er svipur guds dýrdar,
Og dýrt heillamerki drottins hjardar.
Sjálfur gud býr í sínum helgidómi,
Eilíft ljós er hans andlitis sómi.
Ljómandi gud nefnist ljóssins fadir,
Ljóssins børn eru hans lýdir kalladir.
Jesús er líf og ljós lifandi manna,
Sem upprann og ofan kom af hædum himnanna.
Kerti er af hlutum tveim, kveik og tólki,
Par á logi ljós, sem lýsi fólki.
Pad klára kirkjuljós, Kristur blessadur,
Einn med tveimur náttúrum er gud og madur.
Minnir oss messu ljós á manndád skæra,
Ad vøndum verkin góð, sem vor er æra,
Kennir oss kirkjuljós, kveikt á altari,
Ad lukka vor, líf og trú leikur á skari.

14. **Hvad þýda klædi þau, høkull og serkur, sem um messutíma íklædist klerkur?**
Mark og einkenni er messunar skrúdi,
Sá honum klædist er Krists sendibodi.
Eins og guds eingill sást á páskadegi,
Hvitklæddur í steinþrónni hægra megin.
Einnig eru upptøk þess i eldra testamenti,
Tignarklædi bar sá í tjaldbúd þénti.
Í Arons prests skrúda var ærinn blómi,
Ad guds skipun þá hann gekk i helgidómi.
15. **Hvar fyrir er klukkum hringt til messu?**
Gud er frumkvødull ad skikki þessu.
Á Sinai fjalli svo bar til fordum,
Ádur en himna gud hreifdi þar ordum.
Hvell básúnu hljód hann lét þar klingja,
Þar af er sidur sá til saungs ad hringja;
Svo titt sem málmurinn fyrir messu gellur,
Teiknast oss dómsdags hljómurinn hvellur.
16. **Seg mér, hvad messan er í merking sinni?**
Heilog þjónusta i helgu inni.
17. **Hermdu mér, hver er þar helzt ad þénari?**
Sá, sem er skrýddur fyrir skæru altari.
18. **Hvad gjørir sá þjón, þegar hann messar?**
Hann afleysir, prédikar, bidur og blessar.
Í vatnsfonti skirir vitur saungvari,
Deilir út braud og vin vid drottins altari.
19. **Er margt ad gjøra í messu embættinu?**
Sjø verk, sem nú voru søgd øll i einu.
20. **Er margt súngid i messu veglegri?**

Helgir saungvar fimmtán, hver ødrum fegri.
21. Hvad heita saungvar þeir, seg mér hid rétta,
eg held vísdóms mennt ad vita þetta?
Upphaf messu er fyrst inngaungu sálmur,
Geingid er til kirkju, og gellur þar málmur.
Þar næst er fridarbón fram flutt i messu,
Kyrie er upphaf á kórstemmi þessu.
Þá kemur eingla saungur af presti hafinn,
Og dýrd sé gudi i upphædum gefin.
Þá er messu bæn i heyranda hljódi,
Eptir Gabriels ord søgd til søfnudi.
Þar næst postula mál, pistill, tónadur
Og Halelujah-vers, sem himnana gledur.
Þar næst himnasaungs fylgjan føgur,
Sequentian, sem sætan seim dregur.
Þá er gudspjalls gledilegur rómur.
Og Credo, sem játar kristinndómur.
Vers eptir prédikun med són sætum,
Helgunar edla ord undir sinum nótum.
Sakramentis sálmur óvandur
Súnginn, medan útdeiling yfir stendur.
Þá er þakklætis bón byrjud af presti,
Sidan blessunar ord, sá sermóninn bezti.
Utgaungusálmur endar helga messu;
Himnesk er skemmtan ad hlýda þessu.
Allir i søfnudi eiga þessa saungva
Yfir hafa, þar til úr kirkju gánga.
Þeir med vørum lágt, sem vantar saungróma,
Svo kirkjan med kórnum samsýngi, amen.

22. **Er nú þetta ætíð súngið hið sama?**
Nei; því að sitt mál heyrir hverjum tíma.
Adventa, jólin, að kyndilmessu,
Langafasta og páskar hjá oss þá vissu,
Uppstigningardagur og hvítasunna,
Þrenningarhátíð og þaðan til adventunnar.
Tímar kirkjuársins með terminum þessum
Svo sér skipta og líka saungvar í messum.
23. **Flytjast margir sermónar fram í guðs húsi?**
Eg vil telja þá upp, svo úr spurning leysi:
Fyrsti á sæti þar, sem fólk við skriptast,
Þrír á predikunarstól, og þeir svo skiptast:
Áminning til bænar er þeirra hinn fyrsti,
Guðspjalls útlegging annar sá næsti,
Almennileg bænagjörð er þriðja ræða,
Þá prédikun endast, sú fólkið á að fræða.
Fimmti er áminning fyrir guðs altari,
Áður en bergir innargaungu-skari.
Sjötti við kirkjudyr, þá konur inngánga
Eptir sinn barnburð og útistöðu lánga.
Sjöundi við kórdyr, þá saman skal hjón vígja.
Áttundi, þá afleyst er opinberlega.
Níundi við fontinn, þá fögur vatnsskírnin
Handtéruð er og helguð guði börnin.
24. **Að upphafi spyr eg ársins kirkjunnar?**
Það er fyrsti sunnudagur jólaföstunnar.
25. **Hvað er þá í fyrstu framsett til mennta?**

Prefold herrans heilög a d v e n t a.
26. Hvad er á j ó l a d a g helzt lagt í minni?
Maríu sonar fæding af módur sinni,
Á áttadag af drottins umskurnar sári,
Og nafninu Jesú med nýja-ári.
Opinberunar hátíd heitir þrettándi,
Þá komu vitringar úr austurlandi.
María á kyndilmessu kom í musteri,
Símeon fann Krist þar, svo sem hann á kjori.
Á föstugángs sunnudag, svo hljódar kenning,
Vid skírn Kristí var heilög þrenning.
Á bodunar hátíd Maríu birtir letur,
Um Kristí getnad sá dagur getur.
Á skírdag er framsett sú kirkju ræda,
Hverninn menn hold og blód herrans snæda.
Á lángafrjádag er lesin pasía,
Pad er herrans píningar heil historia.
27. Hvad er á p á s k a-d a g prédikad lýdum?
Af sældar Kristí upprisu sigri fridum.
28. Hvad er á u p p s t i g n í n g a r d a g
haft til kenníngar?
Dýrdar upphafning drottins uppstigningar.
29. Hver er lærdómur á h v í t a s u n n u
kenndur?
Um helgan anda, sem af hædum var sendur.
30. En á t r i n i t a t i s tignardegi hreinum?
Þá er af gudi sagt þrennum og einum
31. Hver eru' á J ó n s m e s s u framsett
frædi?

Um fæding Jóhannesar og fødur hans lofkvædi.
32. En á vitjunardag María guds módur?
Hebrons samkoma og hennar dýr ódur.
33. Hvilík er á Mikaelismessu musteris ræda?
Um einglanna og úngbarna edlið góda.
34. En á allraheilagramessu degi mætum?
Segist þá af útvaldra sældarhag sætum.
35. Hverninn er møgulegt ad minnast prests kenníng?
Ef eg prédikunar athuga þrenning:
Fyrst læring þá, sem lætur upp hid sanna,
Hvar á sig festir heiløg trú manna.
Annad er áminning øllum til betrunar,
Sem varar vid illu, svo verdi' ei til hindrunar.
Þridja er huggun sæt, í sorg hvers konar,
Sem glædir upp ged manns til gódrar vonar.
36. Attu margt ad gjøra, þá til kirkju kemur?
Það er innifalid í atvikum þremur:
Fyrst kem eg í bænahús ad bidja med ødrum
Sáluhjálpar sjálfum mér, og samkristnum brædrum.
Þar næst ad hyggnast og hlýda kenningunni,
Þridja lagi ad þakka gudi med rødd og munni.
Hér ad auki á eg á tilsettum tímum
Ad gjøra mig líkan guds kirkju limum:
Fyrir gudi og prestinum grátandi skriptast,
Svo eg megi hvervetna huggast og typtast.

Hér næst ad vera i heiløgu samneyti
Guds sonar holds og blóds med gledi og þakklæti.
**37. Ekki er enn ad øllu spurt, á vil eg hlýda,**
**Hvad mun skriptargángurinn hafa ad þýda?**
Hann merkir játning hjarta og munns þrenna,
I fyrstu þar sorgfullir syndir vidurkenna.
Og kemur sú hjarta-sorg af hørdu løgmáli,
Sem synda þekkingar sannur er skóli.
Trúar játan þar næst i skriptargángi skedur,
Þvi synd-framda samvizku gudspjallid gledur.
Hlýdnis játan þridja heitir i skriptargángi,
Þar gódri lifnadar bót gudi lofar meingi.
**38. Veiztu hvad gott þad er, gudi ad játa.**
**Dýrmætt og heilsusamt djøfli afneita?**
Þad má kalla trúlofun og tryggda-sáttmála,
Sem síd gud sinn i skirn gjørdi hver sála.
**39. Hvad er guds stórmerki, sem hver einn játar?**
Øll skikkan sú, sem hann vill vera láta.
Þad eru øll hans løg og himnesk réttindi,
Sem bjóda hvad rétt er, en banna rángindi.
Þad er lika guds nád i gudsspjalls sannindum,
Sem neitar sig vilja nokkur deyi' i syndum.
Kallanar kristindóms kóngleg regla
Og sakramentin bædi, er svoddan innsigla.
**40. Hvad kallar þú satans verk og vilja?**
Synd og gløtun manns, svo er þad ad skilja.
**41. Þvi óskar þú aflausnar af presti,**
**Þar hann er lika brotlegur og hefir sína bresti?**

Pad gjörir hans postullegt prests-embætti;
Jesús þá fordum í sinn stad setti.
Þá prestur afleysir med yfirlegging handa,
Talar hann ei sín ord, heldur heilags anda.
Í Jesú nafni vil eg vera af syndum leystur,
En ekki sjálfs þess, sem framflytur lestur.

**42. Hverninn kann aflausn prests á þér ad hrína?**

Guds andi gjörir þad fyrir góda trú mína.
Kraptur Kristi blóds kann mig ad hreinsa,
Og alla trúada, af øllum sálar vansa.
Ad gensvørum þinum gedjast vel heyrn minni.
Verdi þér, vinur, eptir vænni trú þinni.

## Epilogus.

Hér næst vil eg í skilnad skila erendi
Frelsarans, sem til þín med fridarbod mig sendi.
Ef legáti konúngs ad þér leita færi,
Og væri hans majestatis mandat þar inni,
Ad þú skyldir í barm stinga bréf-perlu sinni,
Og læra fyrir utan letur, sem á stædi,
Og af trú blifa vid bréfud heilrædi;
Þá skyldi hann unna þér af ríki sinu
Til æru þér og uppheldis ætterni þinu,
Mundir þú í bréfsins innihaldi þig æfa,
Og legátann einnig í heidri hafa.
Nú er biflían bréf kóngsins hæsta,
Hans nádar sendiboda haltu þína presta.
Mundu þvi, barn-korn, þá í guds hús geingur,

Herrans ord er þér himneskur feingur.
Athuga þú prédikunar prestsins uppkvædi.
Og vittu, hvar þad samhljódar vid þin barna-
frædi.
Ad gudspjalls innihaldi gá, sem þú getur,
Og hvad marga púnkta presturinn framsetur.
Festu i minni þinu fogur heilrædi,
Likingar sén þar, sem lifandi frædi.
Af huggunar ummælum haf sálar gledi.
Sit þú undir prédikun med gódu gedi.
Láttu gód dæmi til góds þig upphvetja,
En illra vond afdrif frá illu þig letja.
Vert' ekki gálaus, þá guds ordi hlýdir,
Né fljótur i burt, svo ei blessunar bidir.
Geym þú svo prests ord, sem guds munnur segdi,
Athuga hans rád gód, sem eingill guds legdi;
Þvi ollum monnum verdur eptir trú sinni.
Gott er ad gjora vel og gott leggja' i minni.
Kynntu bér utanbókar kórsaunginn væna,
Amen, segdu til allra kirkjubæna.
Hátidir skaltu i hávirding hafa,
Gladur þá gud þinn i guds húsi lofa.
Gud mun þér kirkjusókn svo gódu launa,
Ending munt sæla fá allra þinna rauna.
Hreppa muntu veru i himnanna riki,
Vina guds útvaldra verdur þú liki.
Messu spurninga þulan sú barna
Kved eg megi heita Kirkjuvit barna.

## Bergmál.

Mun guð marga til dómsins kalla? . . . . Alla.
Eru allir trúaðir á þeim degi? . . . . . . . Eigi.
Er nokkur sjálfkrafa saklaus feinginn? . . Einginn.
Hvernig geingur þeim, er heiminn villa? . . Illa.
Hvað er það, sem herrann þeim sendir? . Endir.
Hvað heyra þeir, svo sárlegá sýti? . . . . . Ite.
Hvar mun þeim reiðast rúm að kveldi? . . Í eldi.
Nær komast þeir úr kvøl margfaldri? . . . Aldrei.
Hvílíkt heyrist hjá þeim hrópið? . . . . . . Opið.
Guð láti þángað fara fáa menn . . . . . Amen.
Hver eru laun, sem guð vill frómum færa? Æra.
Fara þeir nokkuð frá náð margfaldri? . . Aldrei.
Er þeim þá búin eilíf vita? . . . . . . . . . . Ita.
Hvað gefa þeir þá í herrans høndur? . . . Ondu.
Hvað munu þeir þá í fögnuði segja? . . . . . Eja.
Halda þeir leingi það sælu sætið? . . . . . Ætíð.
Hver verður endir á því geingi? . . . . . Einginn.
Guð veit eg þeir lofa þar þráfalt; . . . . Avalt.
Guð gefi oss að vera þeim þó hjá. . . . . . Ojá.
Guð gefi oss að sjá þar þá menn. . . . . Amen.

# Viðbætir,

innihaldandi

## nokkur ljóðmæli,

sem eignuð eru

séra Hallgrími Pèturssyni.

---

### Bænar sálmur
um líkamlega blessun.

Lagið: Nú bið eg, guð, þú náðir mig.

Almáttugi og mildi guð, miskunsamasti skapari, hver vanur ert að leggja lið, lýð þig biðjandi' í neyðinni; þar fyrir vonar hvers kyns hold, herra, veitandi upp á þig, bæði yfir og undir fold, að þú, drottinn, forsorgir sig.

2. Æ drottinn, þessa dýra tíð, daglega höfum forskuldað, sem yfirgeingur land og lýð, lánleysi' og húngur fylgjast að, hér er framkomin hótan þín: hafna skal jörðin á-verti, synjandi brauðs, sem boðorð mín, brjóta með alls kyns ránglæti.

3. Því, misgjörðir þrykkja þètt, þær oss forláti drottins náð, gjald oss ei eptir glæp-

um rétt, gæzkunnar fadir, ríkur af dád, uppljúktu þinni hjálpar-hønd, húngrud og naudstødd børnin sed, allar skepnur, sem eru med ønd, almáttug gæzkan nær og gled.

4. Vitja vors lands, svo verdi þad, veitandi sinni frjóvgun af, krýn þú vort ár, svo komi oss ad, krøptug blessan um jørd og haf; drjúpi þín fótspor fullri nægd, fadir himneskur morgna og kvøld, gefandi braud, en veittu vægd, vér þó verdskuldum alls kyns gjøld.

5. Søkum þess makt þín mikil er, miskunar stórt þú hefir vald, ávøxtud skýin útbreider, eins og himneskan klædàfald, gefandi regn, svo grænkar jørd, greidandi fódur kvikfénad, úngum hrafnanna býr þú bord, bidur náttúran þig um þad.

6. Þú mettar bædi menn og fé, margan rennandi straums úr lind, stillir þú svo hann framfljóte, fyrir sérhverja þessa kind, vid þá fuglarnir sitja, en sætt, sýngja þér lof á føgrum kvist, blánkar á landid vatni vætt, væna ørfandi gledilyst.

7. Svo af sádkorni bakast braud, brjóstid gledur hid sæta vín, oleum gjørir andlit raud,

með edlis góðum krapti sín; vor guð, hvað eru verk þín sett, vísdómslega í hollan skamt, øll hefir þú þau reglað rétt, ríkur ávallt, en gefur þó samt.

8. Orlætis, drottinn, upp nú lát, efri lopt-anna féssjóði, útaus gróðri, svo kvaki kát, korn-þurftug hjørð á jørðunni; herra Jesú, sem hefir mett, húngraðan lýð á eyðigrund, kom og gjør vorn landi létt, lina þú vorri þrauta stund.

9. Afgángi þess blessaða brauðs, být þú nú út með húngruðum, sem annars fara' í sult til dauðs, sauði þá kenndu' í brjósti um; þín hefir ekki høndin stytzt, himneska nafn þitt vona' þeir á, sem bjargræði sitt hafa misst, signaði faðir, aumka þá.

10. Nær þú gefur, svo neytum vær; en nemirðu þína blessun frá, undir eins kemur eymd frábær, eingin skepna þá lifa má; andi þinn kann að skapa skír, skepnum sínum, hvað heilnæmt er, endurnýun hans edla hýr, allt forbetrar, sem jørðin ber.

11. Gef vorri fæðu kjarna' og krapt, að komi oss hennar næring vel, svo sem þú lagðir salla og sapt, sjálfur forðum í himna-

mel; ekki lifum vér einúngis, af þessu braudi stundlegu, heldur af ordi hjálprædis, himnesska fødurs blessudu.

12. Blessun tak ei úr braudi því, sem bjarga voru lifi á, heldur velsigna art þar i, sem Elisæi braudin fá. Húngrudum, drottinn, hjálpa nú, hallæris þeirra mýk þú stund, og fyrst fuglana fædir þú, forsorga oss á alla lund.

13. Alla fátæka annist gud, sem ekkjuna í Sareptá, svo efist ekki í eymd og naud, óþolinmædi' ei sigri þá; heldur afþreji' i helgri von, med hjartans idrun, bæn og trú, mildasti Jesú Maríu son, miskuna oss og blessa þú.

14. Metta sál vora med þín ord, miklu sætari veri þau oss, en hunáng þó þú berir á bord, blessa þá og vorn rauna kross, allt þángad til vid bord þitt blitt, barna guds dýrdar ríki í, auglit þitt skoda fáum fritt, fullsælir vel af yndi því.

---

## Kvædi um Krists kraptaverk.

**Maktin guds er mikil og há, mædda að endurnæra, Það vil eg læra í ljóða smíð að færa.**

Þá lausnari heimsins holdi klæddist, heilagur og synda hreinn, af meyarlísi fögru fæddist, fornum reisum vafður sveinn, margur af hans forsögn fræddist, fram svo liðu stundir þá. **Maktin guds er mikil og há.** Af laungum meinum lýðurinn græddist, lífs fyrir orðið skæra. **Það vil eg læra í ljóða smíð að færa.**

2. Kóngs maður einn af **Kapernáum**, kom til hans í góðri von, bað hann (ljóst sem letrað sjáum), að lækna þar sinn veika son. Annsaði Jesús orðum fáum, en við það þeim sjúka brá. **M. g. e. m. o. h.** Hann bauð og einnig anda þráum, annan þar ei særa. **Þ. v. e. l. í. l. s. a. f.**

3. Mágkona **Péturs** kvalin af köldu, kanna mátti lánga þraut, Jesúm þángað virðar völdu, vægðar af honum sljóðið naut, fyrna margt af fólki' ótöldu, færðu aðrir til hans þá. **M. g. e. m. o. h.** Þeir sem líf í eymdum öldu, úr ángist gjörði færa. **Þ. v. e. l. í l. s. a. f.**

4. Til lausnarans kom einn líkþrár maður og lækningar bað þegi seinn, það veitti drottinn hjálpar hraður, honum sagði: vertu hreinn. Iktsjúkur í sæng óglaður, segir til hans: hann taki þá. **M.**

g. e. m. o. h. Hann gekk burtu heilbrigdadur, med huggun sálar skæra. Þ. v. e. l. í l. s. a. f.

5. Jóhannes lætur letur útgánga, lá þar einn af sóttum sár, þjáning bar sá þrauta lánga, þrjátiu heil og átta ár, sífeld gjørdi hann sútin stánga, sat vid dikid Betesdá. M. g. e. m. o. h. Heilsubót ad hann lét fánga, himnaljósid skæra. Þ. v. e. l. í l. s. a. f.

6. Máttlaus høndin veikleik vafdi, þeim veitti drottinn heilsubót; margur hann þar hjálpar krafdi hættri vafinn píslanót, sem dofa, ikt og djøful hafdi, deyfu, blindni og líkþrá. M. g. e. m. o. há. Fódrid sálar ei fyrir tafdi, ad frida þá og næra. Þ. v. e. l. í l. s. a. f.

7. Þá frelsarinn ofan af fjalli vendi, og fagra rædu hafdi ent, lærisveinum og lýdnum kenndi, lífsins orda ædstu mennt, spitelskan áhrærdi hendi, hreinn vard strax ad bragdi sá. M. g. e. m. o. h. Þjón høfdingjans heilsu sendi, hørmúng lét ei særa. Þ. v. e. l. í l. s. a. f.

8. Um borg og kauptún bodadi Kristur, beinan veg til himna ranns, sem herbergi fékk líknar lystur, leiddur þángad var til hans, einn sá djøfull bagadi bistur, bædi firrtur ad tala og sjá. M. g. e. m. o. h. Dýrdar blómid Davids kvistur, dapran gjørdi næra. Þ. v. e. l. í l. s. a. f.

9. Þá Jesús yfir øldu-geima, almáttugur kominn var, tvo besetna sá hann heima, sér á móti

hlaupa þar, í daudra grøfum høfdu heima, hørfudu sidan fjøllin á. M. g. e. m. o. h. Djøflana lét i svinin sveyma, svartir þeim fortæra. P. v. e. l. í l. s. a. f.

10. J tólf ár konu mjøg réd mæda, mein þad fylgir kvennkyni, svo madur einginn mátti græda, þó miklu þar til kostadi; sem faldinn snerti' hún Kristi klæda, kenndist vera frí þar frá. M. g. e. m. o. h. Vid hana gjørdi herrann ræda: hughraust vertu hin kæra. P. v. e. l. í l. s. a. f.

11. På herrann Jesúm himins og landa, heyrdu gánga blindir tveir, hrópa lúdir hátt, þar standa, hjálpar af honum beidast þeir; þeim dimman framar gjørdi ei granda, græddi rótin Jesse þá. M. g. e. m. o. h. Hann baud og døkkum djøfuls anda, af dumbum burt sig hræra. P. v. e. l. í l. s. a. f.

12. Kananeiska kvinnu þreytti, kvøl, sú hennar dóttir sker, vid blidan Jesúm bænar neytti, bøli þvi ad létta af sér; á afsvørunum ei sig steytti, er hún tvisvar hlaut ad fá. M. g. e. m. o. h. Aumri sidan adstod veitti, Arons blómstrid skæra. P. v. e. l. í l. s. a. f.

13. Daufan, hvern þar mæddi' enn meira, mállaus var hann vafinn sút, til Jesúm leiddi fólkid fleira, frelsarinn þá hrækti út, fingur i hans færdi eyra, fyrir þad sterka hefatá. M. g. e. m. o. h.

Madurinn gjørdi' ad mæla og heyra, magnast herrans æra. Þ. v. e. l. í l. s. a. f.

14. Í Betsaída blindan lita, blessad vildi meya sád, samt þó ekki voladan vita, en veita heldur læknis dád; í hans gjordi augu spýta og yfir hann lagdi hendur þá. M. g. e. m. o. h. Hann þurfti' ei leingur sjónlaus sýta, svoddan dæmi' oss næra. Þ. v. e. l. í l. s. a. f.

15. Púkinn einn þar hrakti og hrelldi, er hrumur, dofinn var og sár, eymdir nistu, frodu felldi, fast hann þjádi andinn flár, vard honum þrátt af vatni' og eldi, vodi syndur og daudans þrá. M. g. e. m. o. h. Auman læknar ædsta veldi, ímynd fødursins kæra. Þ. v. e. l. í l. s. a. f.

16. Efni því ei Lúkas leynir, lausnarinn þá kominn var, í einhvern stad, sem gloggt ei greinir, til grædslu honum feingu þar, djøfulódan mann med meini, mállaus var, sem leturinn tjá. M. g. e. m. o. h. Ut var rekinn hinn óhreini, fyrir herrans dyggd frábæra. Þ. v. e. l. í l. s. a. f.

17. Þar hafdi ein kona kránkleiks anda, kreppt og bjúg í átján ár, fyrir yfirlegging herrans handa, henni dvinar mædan sár, blessadur leysti vif úr vanda, vertu (sagdi hann) laus þar frá. M. g. e. m. o. h. Hún dýrkadi skapara lýds og landa, fyrir líknar nád svo skæra. Þ. v. e. l. í l. s. a. f.

18. Blindur, þó sé búinn vodi, borinn var einn í þeirri neyd; sagt er ad Jesús saur tilhnodi, og

sídan á hans augu reid; herrans eptir háu bodi, hitti díkid Sílóá. M. g. e. m. o. h. Sem í vatni þvi sig þvodi, hann þádi sjón svo skæra. Þ. v. e. l. í l. s. a. f.

19. Vatnssjúkur á sabbatsdegi, settur fram fyrir herrann var. Lausnarinn spyr, hvort lækna megi. Logspekingar gefa' ei svar; falskir þó vid þessu þegi, í þánka hugsa rádin slá. M. g. e. m. o. h. Jesús vill þann veika eigi, volædi skuli særa. Þ. v. e. l. í l. s. a. f.

20. Tíu menn í líkþrár lúa, lángt frá stódu og kalla enn, á mildan Jesúm meistarann trúa, miskunar bidja allir senn; en hann baud þeim burtu ad snúa, og birta skyldi prestum frá. M. g. e. m. o. h. Veikleikinn þá vard burtslúa, fyrir viljann drottins kæra. Þ. v. e. l. í l. s. a. f.

21. Til Jerikó þá Jesús reisti, játudu tveir í einu þar, ad almátt hans þeir upp á treysti, og af honum beiddust lækningar; bádum þeim var horfin hreysti, hvorugur kunni neitt ad sjá. M. g. e. m. o. h. Guds son báda ljúfur leysti, þá linadist hryggdar snæra. Þ. v. e. l. í l. s. a. f.

22. Þegar med svik og sára pretti, sækja Kristum Júdas réd, þá var Malkus þykkju metti, þar í ferd og rádi med; eyrad af honum Símon setti, sverdi þegar til varnar brá. M. g. e. m. o. h. Höndina út ad herrann rétti, hann nam strax áhræra. Þ. v. e. l. í l. s. a. f.

23. Svoddan vel, min sála, mundu, sanna mildi guds og manns, allir líf og lækning fundu, er leitudu á nádir hans, hvad þig hrellir heims á grundu, hann í trúnni vonadu' á. **Maktin guds er mikil og há.** Honum sé lof á hverri stundu, heidur, pris eg æra. **Þad vil eg læra í ljóda smíd ad færa.**

## Um sköpun heimsins og Krists hingadburd.

**Herrann skapadi lopt og lád, lýdi og blómstrid frída, sá var hagur, sem þad kunni smída.**

J upphafi skapadi fadirinn fyrst, frída jörd med dádum, skóga' og holt med skærri list, af skírum guddóms rádum, yfir þad setti hann Adam víst, allvída þad stendur skrád. **Herrann skapadi lopt og lád.** Var þá hvergi veröld bist, svo vesöld þyrfti ad kvída. **Sá var hagur, sem þad kunni smída.**

2. Veröldin breid med blóma stód, blessud gædum öllum, hún var bædi græn og gód, glóudu lauf á völlum, fuglar súngu um fiska-slód, feingu sinnar skyldu gád. **H. s. l. o. l.** Lausnarinn af oss létti mód, hann lét sér undir svída. **S. v. h., s. Þ. k. s.**

3. Ljúfir skulum því lúta þér, lausnarinn allra manna, af miskun komst í heiminn hér, hjálpar skjólid sanna, á herdum þínum heim oss ber, í himna dýrd, þar nóg er nád. **Herrann skapadi lopt og lád.** Svo vér megum sýngja þér, sífelt lofgjörd fríd. **Sá var hagur, sem þad kunni smída.**

## Um fæðingu Krists, dómsdag og eilíft líf.

Hljómi raustin barna bezt, blíð á þessum degi, og lofgjörðin allra mest, oss var gefinn og fæddur, lausnarinn gæzku gæddur, af meyar kvið, kvið, kvið, af meyar kvið með líkn og lið, líkama vorum klæddur.

2. Austan kóngar komu þrír, Krist vorn finna vildu, fylgdi þessum fórnin dýr, fréttu af barni skæru, sem stjarnan óskar æru, gullið bezt, bezt, bezt, gullið bezt og myrra mest, með reykelsi skæru.

3. Í þessum fæddist heimi hann, hulinn slæmum klæðum, geymdur í stalli guð og mann, hans göfug tign mun standa, lausnarinn allra landa, hérfáng tók, tók, tók, herfáng tók og hryggðir jók, hann þeim myrkra anda.

4. Með sætum sigri sá reis upp, son guðs þriðja' á degi, batt hann vonda Belzebúb, boðaði náð svo fríða, lausnarinn allra lýða, til himna fór, fór, fór, til himna fór sú heillin stór, hann réð fyrir oss stríða.

5. En þó kemur aptur hann, á tilsettum tíma, þessi' hinn góði guð og mann, gjörir þá dóm að halda, vondum verðkaup gjalda, en kristna þá, þá, þá, en kristna þá hann kallar á: komið í dýrð margfalda.

6. Hinna tala mun herrann til, hefst þeim lítill friður: á yður veit eg eingin skil, eingan yðar eg þekki, farið á Belials bekki, með lífi' og sál, sál, sál, með lífi' og sál í logandi bál, mig líta fáið ekki.

7. Þér hafið þjáð og þvingun veitt, þýðum herrans sauðum, mína dýrð og mildi sneitt, með svo vondu

hádi, ydur því einginn nádi, heljar raun, raun, raun, heljar raun þér hafid i laun, med heitu neista sádi.

8. Herfilegar hefndir þá, hafa, þeir illa gjordu, skilja vill þá skaparinn frá, skjótlega sinum saudum, sem leyst hefir lifs frá naudum, :,:hinir bol, bol, bol, :,: hinir bol og hryggdar kvol, hafa hjá djofli snaudum.

9. Heyra má þá harm og kvein, hátt med eymdar hljódum, sjá þeir þar sitt synda mein, seint þó ad því gættu, þá syni guds ei sættu, :,:i heimi glaum, glaum, glaum, :,: i heimi glaum þeir hofdu taum, hvarma tár ei vættu.

10. Fagran munu þá fagnadarsaung, fridust guds born halda, æfin sinnst þeim ekki laung, um eilifar aldir alda, gledinni gud mun valda, :,:ljóminn þá, þá, þá, :,: ljóminn þá er lýdum hjá, þá lidin er æfin kalda.

11. Haltu mér vid hópinn þann, himna fadirinn gódi, er leidir þú i lifsins rann, þar ljómar eilifur dagur, frábær, furdu fagur, :,:þar sést ei nótt, nótt, nótt, :,: þar sést ei nótt, ei sorg né sótt, sæll er þá vor hagur.

12. Hver, sem elskar herrann Krist, hann fær gledi sanna; min er þar til ljúfust lyst, lofgjord honum vanda, fyrir hjástod heilags anda, :,:og dikta saung, saung, saung, :,: og dikta saung um dægur laung, drottni minum til handa.

13. Mér lizt nú kominn timi til, ad taka sig hédan búa, minar syndir minn gud hyl, mér ei verold lætur, eg gef henni gódar nætur, :,:heim til þin, þin, þin, :,: heim til þin frá hryggd og pin, hafdu mig, Jesú sætur.

14. Valt er þetta veraldar hjól, vølt er heimsins blída, þú, réttlætis sanna sól, sálna hirdir mætur, gef þú ad mér gætur, :,:heim til þín, þín, þín,:,: heim til þín, frá hryggd og pín, hafdu mig Jesú sætur.

15. Mig lángar hédan, lausnari minn, og lystir þar ad búa, sem eg hæstu huggun finn, því heimurinn illa lætur, um daga og dimmar nætur; :,:heim til þín, þín, þín,:,: heim til þín, frá hryggd og pín, hafdu mig Jesú sætur.

16. Þá er eg gladur, gud, í þér, gladur í himnaríki, þar gledi' um eilífd gladvær er, og gledi útvaldra manna, þá sælu gef mér sanna. :,:Amen til, til, til,:,: amen til eg óska vil, einginn mun þad banna.

## Reisu-sálmur.

Lagid: Gled þig guds sonar brúd.

Jeg byrja reisu mín, Jesú, í nafni þín, høndin þín helg mig leidi, úr hættu allri greidi; **Jesús mér fylgi í fridi, med føgru eingla lidi.**

2. Módurjørd minni frá, þín mildin gæzku há, leiddi med lukku blída, og létti øllum kvída. J. m. f. í. f., m. f. e. l.

3. Þín fødurleg nádin frí, framandi løndum í, forsorgadi og fæddi, fullvel nærdi og klæddi. J. m. f. í. f., m. f. e. l.

4. Frá fári, sorg og sótt, síd, árla, dag og nótt, vel mig jafnan verndadir, voldugi hjartans fadir. J. m. f. í. f., m. f. e. l.

5. Hér fyrir hverja stund, af hjartans innstu grund, þér vil eg þakkir skýra, þrenning guddómsins dýra. J. m. f. í f., m. f. e. l.

6. Vil eg nú víst til sanns, vitja míns fødurlands, í þínu nafni' alleina, almættis tignin hreina. J. m. f. í f., m. f. e. l.

7. Flý eg nú því til þín, þú hjartans vonin mín, verndin þín vel mín gæti, svo voda eingum mæti. J. m. f. í f., m. f. e. l.

8. Þó eg med íllsku mennt, opt hafi straff forþént, samt mjúk þín miskun hlífi, mér bædi' á sálu' og lífi. J. m. f. í f., m. f. e. l.

9. J voda, vanda' og þraut, vel eg þig førunaut, yfir mér virztu vaka, og vara á mér taka. J. m. f. í f., m. f. e. l.

10. Þá sjáfarbylgjan blá, bordinu skellur á, þín hægri hønd oss haldi, og hjálpi med guddóms valdi. J. m. f. í f., m. f. e. l.

11. Frá stormi' og sterkum vind' og stridri sjáfar mynd, frá ógudlegu' illþýdi, alls kyns voda og stridi. J. m. f. í f., m. f. e. l.

12. Þá vil eg þakka þér, nær þú hefir hjálpad mér, sem Jakob fadirinn fordum, med føgrum bænar ordum. J. m. f. í f., m. f. e. l.

13. Þú skalt í allri naud, ætíd vera minn gud, þér vil eg þjóna, trúa, og þakkargjørd tilbúa. J. m. f. í f., m. f. e. l.

14. Mitt hjartans trúar traust, til þín er efa-

laust, ad mér med mistun skærri, munir þú vera nærri. J. m. f. í f., m. f. e. l.

15. Ljóst þegar lifid dvín, leid þú mig heim til þín, í fødurlandid frída, firrtan vid allan kvída. J. m. f. í f., m. f. e. l.

16. Amen, ó Jesú minn, ad þér tak þrælinn þinn, til skips þá gánga geri, guds einglar med mér veri. **Jesú mér fylgi' í fridi, med føgru eingla lidi.**

## Aminning ad vera ánægdur med sitt.

Málsháttt hafdu í minni einn, minnis verdur hann stædur, tók eg penna, þó tregur og seinn, ad tempra vísna glædur, svo mun renna raddar teinn, rétt í ordskvids máta: þetta mun drottinn dýrstur einn, duga' ad sønnu láta.

2. Ordtækid gamla ei skaltú, í orda rædu skerda, sérhverjum eptir sinni trú, sídar og fyr mun verda, ef á stødugum stofni sú, stendur, því munt játa; þetta mun drottinn dýrstur einn, duga' ad sønnu láta.

3. Fuglarnir hafa faung ei stór, þá fædu sinnar leita, ad morgni hver fastandi fór, ad fá þeir skyldu neyta, á kvøldi aptur kemur hver, kvidalausir ei gráta; þetta mun drottinn dýrstur einn, duga' ad sønnu láta.

4. En þó ei mestu efni hér, ó madur, hlotnast kunni, ørvæntingar aldrei þér, ord lát heyrast af munni, segdu heldur, sem þér ber, svo med hyggju káta; þetta mun drottinn dýrstur mér, duga' ad sønnu láta.

## Kvædi.

**Sat eg undir fjallinu fríða, heyrði' eg fagran fugla saung um dægur laung, ekki reikaði hugur minn þá víða.**

Fróður beiða míg réð maður, mærð framleiða sinnis glaður, Fjölnis veiða feinguriun hraður, fér þó tregur róms um gaung; **heyrði' eg fagran fugla saung.** Við málið greiða stend eg staður, stökurnar mjúkt að smíða; **ekki reikaði hugur minn þá víða.**

2. Sá eg mörk af vildis verkum, vafin börk á skógi merkum, ein var björk með ilma sterkum, aldins fegurst veitti saung; h. e. f. f. s. Mektar ork á munni og kverkum, miðla smekknum blíða; e. r. h. m. þ. v.

3. Fuglar sveyma' í fögrum ljóma, fögnuð geyma' og saungva róma, í garði þeim má heyra hljóma, hljóðin lystug, mikil og laung; h. e. f. f. s. Alls kyns seima beztan blóma, ber sú mörkin fríða; e. r. h. m. þ. v.

4. Limið nýtt með laufum þéttum, leiptrar blítt á kvistum sléttum, blakar títt með blóma settum, blaktir mjúkt á hverri staung; h. e. f. f. s. Glansar frítt með gylltum blettum, geislar fagrir bíða; e. r. h. m. þ. v.

5. Eg nam standa og því undi, öllum vanda firrtur mundi, allrahanda fagnaðarfundi fángin þóktist hyggjan raung; h. e. f. f. s. Sárum anda síðan stundi, sú nam gleðin líða; e. r. h. m. þ. v.

6. Vindar furdu hastir hrærdust, hræsvelgs burdum allir nærdust, blómstur i þurdu flestøll færdust, féllu lauf af eikar spaung; h. e. f. f. s. Følar urdu, sølnadar særdust, sérhver þøllin hlida; e. r. h. m. þ. v.

7. Fuglar súngu lystugt leingi, ljúfri túngu sælu geingi, harma sprúngu frá eg feingi, ferdin gjørdist mikil og laung; h. e. f. f. s. J frosti þúngu fannst þá einginn, fegnir i hylming skrida; e. r. h. m. þ. v.

8. Allur skógur er fallinn fagur, følnadur plógur, en sorgarslagur, eflaust nógur, hrørnar hagur, horfin gjørvøll lysta faung; h. e. f. f. s. Vaknar rógur, dvinar dagur, dýr og fuglar kvida; e. r. h. m. þ. v.

9. Veraldar prýdi' og glisleg gædi, get eg lidi' og følni bædi, glaumurinn fridi' og fegurdar ædi, flýr i svip um leynigaung; h. e. f. f. s. Lif med stridi' á lausum þrædi, leikur og øll þess blida; e. r. h. m. þ. v.

10. Siglukarfi hleidólfs hverfi, hafdi' hinn djarfi minnst atgervi, fékk i starfi af Fryggjar erfi, fararspéll med hverri raung; **heyrdi' eg fagran fugla saung.** Gyllings arfinn skeinkti' ad skerfi, Skirnis drykkinn þýda; **ekki reikadi hugur minn þá vida.**

## Um veraldarinnar háttu.

**Heims hrørna gædi, hnignar allt og þver,**
**leikur lif á þrædi, en lukkan vølt er.**

Drøgnum skal nú bjóda, bragarins litinn gróda, gud eda virda góda, gjarnan vil eg ei hnjóda, um hætta

hegdun þjóda, hér þó margt eg rædi. Heims hrørna gædi. Sizt, ef satt skal ljóda, sjálfur haga' eg mér. **Leikur líf á þrædi, en lukkan vølt er.**

2. Villast menn úr máta, má þad sannleik játa, minnst sér móti láta, mun þad eingin gáta; margir stoltsa og státa, med stærilætis ædi. H. h. g. Má sá mæddur gráta, sem meira okid ber. L. l. á þ., e. l. v. e.

3. Verøld margan villir, vitrum mønnum spillir, holdid háskann hyllir, hugmód brjóstid fyllir; ágirnd andinn gyllir, svo yfirvøldum nædi. H. h. g. Margur á tá sér tyllir, tæpt þó standi hér. L. l. á þ., e. l. v. e.

4. Maktin magnar kala, meir en eg um tala, margir metord fala, mergd fyrir ríkisdala, búk af bjórnum ala og bera vegleg klædi. H. h. g. Huganum hér med svala, hvad sem á eptir fer. L. l. á þ., e. l. v. e.

5. Margir hugarhresstir, hátt eru stundum sestir, fá ár ríkja flestir, fjørid daudinn lestir, eingin fót svo festir, ad fyrir því bragdi stædi. H. h. g. Allir erum vér gestir, eitt erfum, sem ber. L. l. á þ., e. l. v. e.

6. Veraldar vesnar hagur, velkist blóminn fagur, gledi dvínar dagur, daudinn er ekki ragur, í burt dó margur magur, þó mammon nógan grædi. H. h. g. Ekki' er unninn slagur, aud þó hreppum vér. L. l. á þ., e. l. v. e.

7. Ungur orku réttur, opt á stól er settur, volud-um voda þéttur, varla þykist mettur; degi sídar dett-ur, og dreifist Krakasædi. H. h. g. Valdi og virding flettur, vikur frá því ber. L. l. á Þ., e. l. v. e.

8. Stundleg stjórn vill þrotna, stoltari hefdar gotna, eingir um eilifd drottna, eikur háar brotna, sem tréd þad lága' og lotna, lik verda þau bædi. H. h. g. Rikir i jørdu rotna, ród er ad gæta' ad sér. L. l. á Þ., e. l. v. e.

9. Lif med hógværd laga, og láta' ei yfir klaga, þad er sæmdar saga, ad sýna' ei neinum baga, um alla æfidaga, er sá sæll því nædi. H. h. g. Undir drottins aga, øllum lúta ber. L. l. á Þ., e. l. v. e.

10. Hug vid heiminn festa, hætta er hin mesta, stundlegt blóm vill bresta, búin er sorgin mesta; synda særing vesta, sannur drottinn grædi. H. h. g. Sidan sér þad bezta, senn þegar æfin þver. L. l. á Þ., e. l. v. e.

11. Gud frá grandi nauda, geymi rika' og snauda, hópnum herrans sauda, hjálpi hans blódid rauda, svo glæpa girndin trauda, gjøri' oss ei vandrædi. Heims hrørna gædi. Lika' i lifi' og dauda, likni drottinn mér. **Leikur lif á þrædi, en lukkan vølt er.**

Undir eins brestur burdi og hug, blánkadur fuglinn missir flug, þá vængur verdur dár, framan af honum fjadrir þrjár, feingid hafa allar sár.

2. Einn hefir fellt og aptur reist, einn gat bundid og lika leyst, gaf sár og grœddi hag, sorgir veitti' og gledi gaf, gaf hann fyrst og tók sidan af.

3. Lánid því ekki leingur er, en lént hefir sá, sem rádin ber, sitt taka madur má, hvad miklu framar sá allt gott á, og allra bezt kann fyrir ad sjá.



# Registur.

